INDRIÐI EINARSSON:

# HELLISMENN.

## SJÓNLEIKUR Í FIMM ÞÁTTUM.

REYKJAVÍK.

Kostnaðarm.: SIG. KRISTJÁNSSON.

PRENTAÐIR Í PRENTSMIÐJU DAGSKRÁR

1897.

# Persónur.

*Valnastakkur* foringi Hellismanna.

| | |
|---|---|
| *Fjögramaki*<br>*Eiríkur*<br>*Þiðrik*<br>*Vilmundur*<br>*Geiraldur*<br>*Atli* | Hellismenn. |

*Þorvarður* bóndi í Kalmanstungu.

*Sigríður*, dóttir hans.

*Guðrún*, uppeldisdóttir hans.

*Guðmundur*, sonur hans, forvígismaðr bænda.

| | |
|---|---|
| *Gunnar*<br>*Einar* | vinir hans. |

1. Bóndi.
2. Bóndi.
3. Bóndi.

Einn særður maður.

Einn maður.

1. Síðhöttur.
2. Síðhöttur.

1. Drengur.
2. Drengur.

Fleiri Hellismenn. Vopnaðir bændur. Svipir 3ja Hólabiskupa. Svipur móður Eiríks.

---

Fer fram seint á 14. öld.

# Fyrsti þáttur.

## 1. leiksvið

(Á Hellisfitjum. Hvammur í eldhrauninu; hrískjarr sjest hingað og þangað; til hægri sjest toppurinn af Strútnum yfir hraunbrúnina, himininn er heiður og blár. Haustmorgun. Guðmundur og Gunnar liggja í kjarrinu.)

GUNNAR:

Hvernig stóð á því, að Hellismenn lögðust út?

GUÐMUNDUR:

Þegar þeir voru í skóla á Hólum, voru þeir einn dag að hlaða snjókerlingu. Á staðnum var gömul kona, sem kom sjer illa og hreytti í þá ónotum meðan þeir hlóðu snjónum. Þeir tóku hana og hlóðu henni í snjókerlinguna.

GUNNAR:

En hún beið bana af?

GUÐMUNDUR:

Já. Biskup vildi ekki leysa þá úr banni, þeir voru læstir 18 inni í Litlu stofu á Hólum; enginn þeirra vissi hvort þeir biðu lífláts eða

annarar refsingar. Þá stóð Fjögramaki upp. Hann sagðist ekki vilja deyja óhefndur, skaut stokki á dyr og braut þær upp. Þeir fylgdu honum

GUNNAR:

Vopnlausir?

GUÐMUNDUR:

Í Sakristíunni Hólum var kista með góðum vopnum. Þeir brutu upp kirkjuna og tóku vopnin.

GUNNAR:

Og rændu kirkjuna?

GUÐMUNDUR:

Já. Þegar þeir fóru burt, bannsöng biskupinn þá á norrænu svo heimamenn gætu skilið hann. Málið gegn þeim var dæmt í Hegranesþingi vorið eptir.

GUNNAR:

Og þar voru þeir dæmdir til dauða?

GUÐMUNDUR:

(sprettur upp)

Það er eins víst að Hellismenn sitja um mig, sem það að jeg stend nú á brunahrauni.

GUNNAR:

(sprettur upp).

Það segir þú satt, en þeir sitja einnig um oss hina, sem minni er slægurinn í.

GUÐMUNDUR:

En mig einan mundu þeir drepa, ef jeg kæmi á þeirra vald.

GUNNAR:

Ekki er jeg viss um það.

GUÐMUNDUR:

Jú, það er jeg viss um. Jeg hef gert þeim mest íllt. Jeg hef svarið þeim trúnaðareiða, verið með þeim til að kynna mjer hagi þeirra, þjónað þeim í tvo ár og síðan svikið þá.

GUNNAR:

En nú meiga þeir vita, að þú hefur sagt okkur alla háttu þeirra.

GUÐMUNDUR:

Víst er svo; en þeir eru mjer ekki reiðastir af því að jeg þekki hvert spjót, hvert sverð og hverja brynju sem þeir hafa, heldur fyrir það, að jeg hef svikið þá og hlaupið brott frá konunum í hellinum.

GUNNAR:

En hvað gerðu þeir við konur þessar?

GUÐMUNDUR:

Valnastakkur kreysti þær, svo blóðið sprakk undan nöglunum, Fjögramaki hló að þeim, Eiríkur gaf þeim engan gaum, en varði þo ávallt málstað þeirra, ef þær heyrðu ekki; hinir glettust við þær og ljetu þær vinna konuverk þar í hellinum. Aðra þeirra var jeg neyddur

til að kefla og binda, áður en jeg fór, en því miður nokkuð fast.

GUNNAR:

Mjer er þjer engin hætta í að trúa.

GUÐMUNDUR:

En hvað gat jeg annað gjört? Hásinin á öðrum fæti mjer var skorinn í sundur, svo jeg gat engin not haft af fætinum, konurnar hefðu getað náð mjer, en þá var mjer engrar vægðar von; konur eru grimmari en úarga dýr ef þær reiðast, svo jeg varð fyrri til. En þann dag sór jeg við alla heilaga, að limlesting mín skyldi kosta höfuð allra Hellismanna.

GUNNAR:

Voru þeir allir á eitt sáttir, að meiða þig?

GUÐMUNDUR:

Nei. Þiðrik vildi láta drepa mig. Fjögramaki vildi að jeg fengi að verja hendur mínar og berjast við mig í einvígi, og að mjer yrði ekki mein gjört ef jeg felldi hann. Valnastakkur vildi að jeg sæti í böndum meðan þeir væru burtu. Þiðrik trúði engum böndum fyrir mjer, og eptir hans ráði var jeg meiddur.

GUNNAR:

Hvað lagði kappinn Eiríkur til?

GUÐMUNDUR:

Hann sat hjá og þagði, en jeg vissi hvað hann vildi. Vilmundur var þeirra óðastur.

Gunnar! Þú veist ekki hvað það er að sitja fyrir dómi 18 manna, sem allir hata þig og hafa grun á þjer; það hef jeg mátt þola og við það varð mjer svo, sem lunderni mitt væri hert í blóði.

GUNNAR:

Það er hart aðgöngu og ef þeir grunuðu þig þá, þá má nærri geta hvað þjer er ætlað nú.

GUÐMUNDUR:

Og hyggur þú að þessir menn munu láta sjer fyrir brjósti brenna að taka hús á mjer og drepa mig?

GUNNAR:

(tekur um hönd honum).

Við því verðum við að gera.

GUÐMUNDUR:

En það er ef til vill, ekki hið versta; sá sem gerist foringi bænda eptir mig, fer á sömu leið og Hellismenn sitja til eilífðar. Jeg segi þetta ekki fyrir því að jeg kenni í brjósti um ættmenn mína. Sá sem ekki kennir í brjóst um sjálfan sig, kennir ekki í brjóst um aðra.

GUNNAR:

En þetta mun aldrei framkoma, bændur halda eiða sína og fylgja þjer.

GUÐMUNDUR:

Þeir halda eiða sína! Nei, það gera þeir aldrei Þeir hafa svarið að hlýða mér, en þeir

gera ekki skipanir mínar, og annað er enn verra, jeg bið þennan skríl og þeir heyra ekki bænir mínar. (Gengur fram og aptur).

GUNNAR:

Hyggur þú að nokkur sé sá ódrengur að gleyma eiðum sínum?

GUÐMUNDUR:

Jeg hygg ekki, jeg veit. Taktu við forustunni. Jeg mun handsala þjer alla þá eiða er mér hafa svarnir verið.

GUNNAR:

Hvað hugsar þú? Hvað verður þá um þig?

GUÐMUNDUR
(kuldalega):

Jeg verð drepinn af Hellismönnum,

GUNNAR:

En faðir þinn örvasa?

GUÐMUNDUR:

Gráu hærurnar verða lagðar í sömu gröfina.

GUNNAR:

Og Sigríður systir þín?

GUÐMUNDUR:

Það er minnst verkið — verður myrt eða svívirt! (gengur um gólf — nemur svo staðar). En svo er komið að þjer, Gunnar.

GUNNAR:

Nei, þetta skal aldrei verða. Jeg mun nú setjast hjá þjer í Kalmanstungu, það gerir þig

traustari; við höfum verði úti á nóttum og gröfum leynigöng frá bænum upp í gilið, þá getum við ávallt komist undan.

GUÐMUNDUR:

Illt þykir mjer ef bændur hyggja mig hræddan og ekki vil jeg stofna þjer í þá hættu; þú getur verið viss um, að Hellismenn vissu það sama daginn, því þeir vita allt.

GUNNAR:

Vita þeir allt?

GUÐMUNDUR:

Já, Þiðrik veit allt, hann er njósnarmaðr þeirra. Og nú yfirgefa bændur mig, svíkja mig og þora ekki að hlýða. (Gengur óhaltur um gólf).

GUNNAR:

(Leggur höndina á öxl honnm).

Þú gengur óhaltur, Guðmundur.

GUÐMUNDUR:

Það geri jeg sjaldan, því jeg þoli það ekki; Gunnlögur Ormstunga hefði ekki gengið óhaltur á mínum fótum, þó þeir sjeu báðir jafnlangir.

GUNNAR:

Það er satt sem sagt er, að þú gangir óhaltur, þegar þjer er mikið í hug.

GUÐMUNDUR:

Vera kann það og nú hef jeg nóg að hugsa. Hvað á jeg að gjöra svo bændur þessir hlýði mjer?

GUNNAR:

Það sem þú allt til þessa hefur gert, að sýna að þú sjert þess verður. En hvað gerir þú ef þeir hlýða þjer?

GUÐMUNDUR:

Jeg ræðst á Hellismenn, ef ekki er annarsstaðar völ, skulu blóðstraumarnir fljóta um kyrkjugólfið. Þeir hafa saurgað kyrkjuna, þeir sýna þann yfirgang að koma þangað, og mínar hendur verða hreinar.

GUNNAR:

En bjóðist ekkert tækifæri þar?

GUÐMUNDUR:

Jeg bræli þá inni í Surtshelli.

GUNNAR:

En ef þeir hlaupa yfir eldana?

GUÐMUNDUR:

Við hrindum þeim á bálið aptur. — En allt þetta munuð þið gera, því Hellismenn vita hvað þeir eiga að gera hinum grimmasta óvini sínum, þegar hann stendur einn síns liðs.

GUNNAR:

(Rjettir honum hendina):

Jeg þekki þig fyrst nú og skaltu aldrei einn standa meðan við lifum báðir.

GUÐMUNDUR,

Þú ert hinn síðasti, sem mjer hefur heitið fylgd, vertu hinn síðasti sem yfirgefur mig.

GUNNAR:

Allir aðrir hafa svarið að fylgja þjer, en þegar sá eiður var unninn, var jeg álitinn of ungur til að vinna hann Eru nú 3 ár síðan, hið fyrsta varstu í Kalmanstungu, og tvö þau síðustu nauðugur í Surtshelli. Þegar bændum þótti jeg of ungur til að vinna stórræði í huganum eins og þeir sjálfir gerðu, þá strengdi jeg þess heit að gera eins mikið i verkinu eins og þeir.

GUÐMUNDUR:

Jeg trúi þjer Gunnar. (Lágt): Hann er minn maður. (Hátt): Þar kemur Einar.

EINAR
(kemur inn):

Jeg er nær því sprunginn af mæði.

GUNNAR:

Hræddur hefur þú þá verið.

GUÐMUNDUR:

Hefur þú alls ekki sjeð Hellismenn á leiðinni? Nú vildi jeg gefa þjer hálfa Kalmanstungu, ef þú gætir sagt mjer eitthvað það um Hellismenn, sem gæti hjálpað mjer að framkvæma ásetning minn.

EINAR:

Svo sýnist sem þeir hafi aldrei öruggari verið, því nú koma þeir með alvæpni ofan Hellisfitjar, og ætla víst til kyrkju í Kalmanstungu í dag.

GUÐMUNDUR:

Ekki er þá til setunnar boðið, Við erum á vegi þeirra og er jeg ekki sá garpur, að jeg vilji við þriðja mann ráða á svo marga. Hvað lízt ykkur ráðlegast?

GUNNAR;

Jeg kann hjer ekki annað ráð, en snúa á móti þeim eða flýja, og er það lítilmannlegt.

EINAR:

Jeg vil leita undan og þykir mjer engin skömm að flýja fyrir svo mörgum.

GUNNAR:

Það vissi jeg fyrir löngu, að illa var skapað í þjer hjartað.

GUÐMUNDUR:

Tala þú svo, þegar við fáum færi á Hellismönnum, því nú höfum við það ekki. Hef jeg nú annað í hug. Jeg krefst þess að þið hlýðið mjer báðir, því hjer er ekki langur tími til umræðu. Skal nú annar ykkar fara niður hraunið og vaða yfir fljótið; þar sjáið þið gráan hest hinumegin fljótsins, og skal sá er fer taka hestinn og ríða sem hvatlegast niður í Hvítársíðu, stefna mönnum saman, láta þá vopnast og ríða hingað uppeftir, til að sitja fyrir Hellismönnum í kvöld, þegar þeir fara frá kyrkjunni. Hinn skal fara til Kalmanstungu og láta kyrkjufólkið bíða mín, en jeg mun koma á eptir til Kalmans-

tungu, þá er Hellismenn eru farnir þaðan. Sá sem fer niður í Hvítársíðuna skal vera mjúkyrtur við Þorleif höfðingjann, láta svo sem hann sje höfuðmaðurinn; með því fæst hann bezt til að ganga í liðsafnaðinn. Kjósið þið nú um.

EINAR:

Jeg vel mjer að fara til Kalmanstungu. (Fer).

GUNNAR:

Og jeg vel mjer að fara niður í Hvítársíðu og stefna mönnum þar saman og efast jeg um að Einar væri betur til þess fallinn að vera fyrir bændum en jeg. Lifðu vel! Jeg skal sitja fyrir þeim í hrauninu; þú kemur að baki þeim með þína menn. (Fer).

GUÐMUNDUR:

Þetta er röskur maður, hann er sterkur vel og hefur hjarta úr stáli, en hann er ungur og þolir ekki að vera lýttur; ef jeg hefði marga hans jafningja, mætti vinna Hellismenn. Hann gengur hvatlega; nú er hann þegar á hestbaki, hann situr vel á hesti; því var jeg ekki gerður svo riddaralegur? Og þessi maður skuli lifa á þessum tímum. — Tímar þessir eru vondir. — Þeir skapa manninn, og þó er þessi unglingur svo ólíkur þeim. [Tekur um enni sjer). Þessir tímar! Það eru þeir, sem gjöra mig að öðrum manni.

Jeg læt biðja alþingi liðveizlu en það hefur ekki vald nema til að dæma. Jeg rita hirðstjóranum, en hann hefur ekki aðrar skyldur en að gjalda Magnúsi og Hákoni konungi skatt og að vera illa þokkaður af landslýð. Biskup Þórarinn í Skálholti benti með andlegum svip á bagalinn og bauðst til að bannfæra þá, það er öll hjálpin! Jeg fyrirlít þessa norrænu biskupa og norrænu tollheimtumenn! Vesælir tímar skapa vesæla menn. — Aðrir gjöra ekkert, en þá skal jeg vinna, jeg vil verða frægur, og jeg skal allt gefa til þess, nema mitt eigið líf. En Hellismenn eru yfir höfði mjer. (Fer hvatlega út).

**Valnastakkur. Fjögramaki, Eiríkur. Þiðrik, Geiraldur, Atli, Vilmundur og Hellismenn**
(koma inn).

VALNASTAKKUR:

Hjer líkist flestallt auðum eyðisöndum,
eilífur dauði virðist drottna hjer.
Hjer sjást ei lengur förin ferðamannsins
því ferðir engar tíðkast hjer um byggð;
en allir hræðast átján Hellisbúa
og enginn dirfist þá að sækja heim.
Þeir vita glöggt að vjer þess mundum hefna
ef vildi nokkur hús vor svipta ró.
Hjer býr því dauði í dökku brunahrauni
og dapur felst ei neisti' af lífi hjer.
Hjer get jeg ráðið flokki frjálsra manna

sem flýja engan; þetta er ríki mitt.
Hjer má jeg gjörla heyra jökulskriðu
hamförum æða niður fjallahlíð,
svo jörðin titrar rjett sem reynihrísla
í regni og stormi efst í hamrakleif.
Á nóttum heyri jeg næturhrafninn krunka
sem náspá drynja hljóðin frá hans kverk,
það hlægir mig, því hrynur aldrei þolað
jeg hefi, nje hin veiku lækjarhljóð.

EIRÍKUR:

Jeg heyri fleira en hljóðin næturhrafnsins
sem hrína í lopti dimmum nóttum á.
Hjer niðar fljótið; fagur er þess kliður,
það fjörugt rennur tærum straumi með.
Hjer má og heyra litla limið bærast
líf er það, og hjer blæs vindur þýtt
og allir hlutir nema hraunið hrærast,
hjer er sjerhvað mestu fegurð skrýtt.
Hjer kvakar einatt kátur fugl í lundi
og kvikt er loptið opt af lóuher,
kvakandi álftir kætast opt á sundi
hjer kætist stundum sjerhvert lauf með mjer.

VALNASTAKKUR:

Þú talar svo, og þú ert hraustur drengur.
Það er furða!

EIRÍKUR:

En jeg get það sagt,
að til er einhver ofur veikur strengur,

sem alheimsvald í brjóst mjer hefur lagt,
hann hrærist þýtt af þýðleik náttúrunnar,
því hún snertir hann með mjúkum góm,
hún tekur hann afli tilfinningar sinnar,
til þess að hann kveði í sama róm.
En þetta er ekki orðafleypur vinur
og engin tilgerð sem jeg hafa vil,
sje náttúran döpur, strengur þessi stynur
og stynur hátt, því jeg get fundið til.

VALNASTAKKUR:

Að finna til er sama og vera veikur,
jeg vil því ekki í þessu líkjast þjer,
þú finnur til og þess vegna ertu bleikur
það hefur sjaldan orðið fyrir mjer.

(Hugsar sig um).

Jeg finn það samt, ef fellur jökulskriða
og fanna þungi niður bratta hlíð,
að æðar hart um hjarta mjer þá niða
jeg hugsa þá um aflraunir og stríð.
Jeg finn það og ef fljót í flóði æðir
og flytur björg og ryður öllu frá
að blóð mitt líkam loga heitum klæðir
og lætur krapta vaxa í taugum þá.
Jeg veit það samt að þetta þegi heitir
það að geta fundið til —

EIRÍKUR;

Þú sjer

einungis það, sem afli miklu beitir

og æðislega í jötunmóði fer;
þú ert svo sterkur að þig ekkert gleður
sem annað sýnir þjer en hörku og þrótt,
þjer mundu skemmta geigvæn galdraveður
og grimmleg elding leiptrandi um nótt.

VALNASTAKKUR:
(brosandi).

En af því, að þú hefur konuhjarta
hið þýða veður bezt mun skemmta þjer,
mjer líkar vel við elding ofurbjarta,
af því jeg hygg að dugur sje í mjer.

EIRÍKUR:

Þú mátt ei saka mig um bleyði og ótta
því mjer hefur aldrei verið brugðið um,
að jeg hafi fyrstur manna á flótta
sem fantur leitað brott frá lagsmönnum.

VALNASTAKKUR
(til Þiðriks):

Hvað segir Þiðrik, þá af ferðum sínum
því jeg næstum óttast sveitamenn;
þeir læðast fram með lymskusvip og fasi
og líta ávallt til vor stolnum augum,
svo það er auðsjeð að þeir eitthvað hugsa
sem okkur sýnist lítið gott og hollt.

ÞIÐRIK:

Jeg hef nú gengið hjer um sveitir víða
en hef þó venju fremur lítið heyrt.
En þegar einhver okkar heyrir getið

er sem þögnin fjötri sjerhvern munn,
en þeir beztu bíta sjer á varir
svo blánar undan.

FJÖGRAMAKI:

Veiztu meir um þá
en þessa sögu?

ÞIÐRIK:

Þetta hugði jeg nægja,
jeg þó er hræddur um að fjörráð köld
brátt muni koma yfir okkur alla
eins og skriða falli yfir bæ.

VALNASTAKKUR:

En hefurðu nokkuð heyrt um flokkadrátt?

ÞIÐRIK:

Nei.

FJÖGRAMAKI:

Hvað ertu þá að tala svik og morð?

VALNASTAKKUR:

Ef þig grunar eitthvað Þiðrik minn
allt skaltu segja mjer og Hellismönnum;
(brosandi).
því sjeum vjer feigir, þá fer valla svo
að þjer sje óhætt.

ÞIÐRIK:

Já, mig hefur grunað,
að eitthvað mundi segjast sögulegt,
er sólir þrjár af lopti eru runnar,
og bændur muni svikum sækja oss

ef sæist færi. Jeg hef marga drauma,
mjer hafa blóðgar sýnir sífellt birst,
og sjeð hef jeg dauða frændur opt í svefni.
Jeg er ei hræddur.

VALNASTAKKUR:

Heldur ekki jeg
um hluti þessa vil jeg helzt mig dreymi.

ÞIÐRIK:

En hvað sem býr í byggða myrkri Þessu
er bezt jeg fari og hyggi að ferðum manna,
Hjer reið maður hesti fráum á
til Hvítársíðu mjer er grunsamt það.
Jeg mæti ykkur er þið komið aptur
ef þið bíðið hjer á sama stað. (Fer).

FJÖGRAMAKI:

Lif þú vel og láttu ei taka þig.

ÞIÐRIK:

(fyrir utan).

Lifið þið vel.

(Samhringt í fjarska).

VALNASTAKKUR:

Og nú er hringt til messu.

(Hellismenn fara).

## 2, Leiksvið.

(I Kalmanstungu. Bærinn sjest til hægri handar, en kyrkjan til vinstri. I framsýn er jökullinn (Eiríksjökull) og Strúturinn til vinstri. Að framan og niður með Strútnum rennur á, en neðan undan jöklinum sjest brunahraun. Samhringt til messu)..

(Guðrún og Sigríður
koma inn).

SIGRÍÐUR:

Vertu hughraust bezta vinstúlka mín! Þeir koma tímarnir að allt þetta verður gott.

GUÐRÚN:

Heyrir þú þetta klukknahljóð? Heilög alvara, sem getur kennt ungum manni að gráta.

SIGRÍÐUR:

Ekki gráta allir við klukknahljóðið. Brúðgumi, sem heyrir það á leiðinni til altarisins; ung stúlka í nýjum fötum, sem kemur til að sýna sig. Hvorugt þeirra grætur.

GUÐRÚN:

Jeg vildi fegin hlægja Sigríður, en get það ekki,

SIGRÍÐUR:

Vonaðu og vonaðu, þó þú getir ekki hlegið, það getum við ávallt (lítur á hana). Bezta vinstúlka mín, hvernig á jeg að reyna að hugga þig?

GUÐRÚN:

Einu sinni kallaðir þú mig systur!

SIGRÍÐUR:

Jeg skal aldrei kalla þig annað en systur, því mjer er betur til þín en þó þú værir það. En hvað á jeg að gera fyrir þig? Þú hefur svo heitt blóð, að það ólgar yfir allar hinar

rólegu reglur, sem jeg gef þjer, Hvernig sem jeg hlæ, þá grætur þú, þangað til augun segja eptir þjer. Hvað get jeg gert?

GUÐRÚN:

Þú talar um vonir, — þær bregðast of opt — og þegar maður er búinn að missa traustið á þær, leggst lífið í auðn.

SIGRÍÐUR:

Þú mátt ekki örvænta, systir mín góð! — Þetta getur breyzt, treystu því.

GUÐRÚN:

Jeg er orðin svo óþolinmóð!

SIGRÍÐUR:

Og þess vegna verður lífið þjer enn þungbærara en það þarf að vera.

GUÐRÚN:

Lífið verður byrði, sem vinir mínir ekki geta gert ljettari.

SIGRÍÐUR:

Jeg, sem tel mig einhvern bezta vininn þinn, ætti að taka á þjer með hnetunum, þó okkur sje eðlilegra að taka á öðrum með lófunum.— Því segir þú þetta? — Þú, sem ert svo vinsæl, að hver sem þekkir þig, vill gjöra þjer allt til gleði.

GUÐRÚN:

Allir sem mig þekkja, vilja taka lífið af þeim, sem jeg er svo ólánsöm að elska.

SIGRÍÐUR:
(brosandi):

Hellismenn koma hjer í dag; smalinn sá til þeirra.

GUÐRÚN:

Koma þeir í dag? Þá er úti um þá!

SIGRÍDUR:

Nei, það eru hraustir drengir, sem jeg nærfellt get dáðst að.

GUÐRÚN:

Hatar þú þá ekki?

SIGRÍÐUR:

Það má jeg ekki þín vegna; en ef þeir gerðu mjer eitthvað illt, þá skyldi jeg setja þann mann hæztan allra, sem hefndi þess grimmilegast. — Þeim er engin hætta búin; vertu óhrædd!

GUÐRÚN:

Fyrst þegar jeg sá Eirík, þá varð jeg önnur, og síðan hef jeg verið ógæfusöm, og svo varð allt enn verra við það að Guðmundur bróðir þinn felldi hug til mín. Móðir þín bað mig opt að þýðast hann, en jeg gat ekki gjört að vilja hennar. — Þetta hef jeg ekki sagt þjer fyr.

SIGRÍÐUR
(lágt).

Nei.

GUÐRUN:

Jeg iðrast þess ekki, en mjer fellur það þungt, Er þjer nú eins vel til mín og áður?

SIGRÍÐUR:

Já, systir mín, og mjer væri enn betur til þín, ef jeg gæti huggað þig.

(þær fara].

(Hellismenn
ganga í tvöfaldri röð yfir leiksviðið og fara inn í kyrkjuna, allir með vopnum).

(3 bændur
koma inn).

1. BÓNDI:

Þeir koma seint í dag Hellismennirnir. — Er bóndasonurinn í Kalmannstungu ekki heima til að bjóða þá velkomna.

2. BÓNDI;

Hér mundi verða tíðindalítið, þó hann væri heima, garpurinn. — Hellismenn verða aldrei unnir, það hef jeg ávallt sagt.

3. BÓNDI:

Það er einnig trúa mín kunningi!

1. BÓNDI:

Þú trúir með einhverju öðru en jeg, ef svo er, og vil jeg fyrr eitthvað reyna, en að börnin mín deyji úr hungri. Þó jeg sje gamall orðinn, vil jeg heldur ganga nærri Hellismönnum, en að þeir gangi svo nærri mjer.

3. BÓNDI:

Jeg er hræddur um, að hjartað sitji ekki í þjer á svona efnilegum stað, um það leyti að þú ert kominn að mynni Surtshellis.

2, BÓNDI:

Álit mitt er það að fáir komist inn í Surtshelli, nema Hellismenn, því framsýnn maður sagði mjer að fleira mundi þar óhreint en þeir einir, og það var presturinn okkar.

1. BÓNDI:

Jeg er viss um að þetta er ekki satt (brosandi) því að Surtur gamli, þó hann hefði einhvern tíma verið til, er sjálfsagt dáinn út nú, og svo mun hann aldrei vond vættur verið hafa.

2. BÓNDI:

Ekki vil jeg ganga á vald fjandanum í Surtshelli.

1. BÓNDI:

Ef þið hræðist svo fjandann í Surtshelli, má leita þeirra annarsstaðar en þar, þó aldrei væri nema hjer við kyrkjuna.

3. BÓNDI:

Hellismenn standa ekki heldur einir hjer við kyrkjuna og má jeg víst vita svo mikið, þó vitlaus sje, að hjer eru einhverjir með þeim líka, sem enginn glímir við með bakinu.

1. BÓNDI:

Hefur presturinn einnig logið því að þjer?

3. BÓNDI:

Víst hefur hann ekki sagt það; en Þrúður kerlingin hjer á staðnum veit ávalt nær Hellismenn koma hingað til kyrkju, því þá sjer hún kveldið áður 3 Hólabiskupa í fullum skrúða ganga inn í kyrkjuna. Þeir standa á gólfinu og snúa bökum saman eins og Hellismenn.

2. BÓNDI:

Og styðjast við bagalinn.

3. BÓNDI:

Það voru ekki mín orð!

1. BÓNDI:

En hún segir það víst ekki fyr en á sunnudaginn, þegar þeir eru komnir.

3. BÓNDI;

Þeir sem sjá fyrirburði segja þá sjaldan fyr en þeir koma fram, því ella hætta þeir að sjá þá.

1, BÓNDI:

Hellismenn verða eflaust skeinuhættari en hinir dauðu fylgdarmenn þeirra.

2. BÓNDI:

Já, við skulum ekki hæða þá Hólabiskupana.

1, BÓNDI:

Til hvers eruð þið að vinna eið að því, að að gjöra allt ykkar til að vinna á Hellismönnum og vera þó svona hræddir.

2. BÓNDI:

Jeg hljóp á mig, því þá vissi jeg ekki það, sem jeg veit nú.

3. BÓNDI:

Sama segi jeg.

2. BÓNDI:

Það hefði víst verið betra að fylgja ráði Þorleifs bónda, sem nú er mestur höfðingi í efri hluta Borgarfjarðar, að láta alþingi dæma Hellismenn á konungs miskun, en hafa slík stórvirki í huga sem Guðmundur, þau láta manni misjafnt, stórræðin!

1. BÓNDI:

En hver átti að reka þá utan? til þess þurfti að hafa Hellismenn á valdi sínu, og svo hefur það enn ekki látið okkur betur að dæma menn á konungs miskun, en stórræðin, og er það fullreynt. Jón skráveifa var dæmdur á konungs miskun og kom inn aptur og var þá lögmaður. En Hellismenn eru menn eins og við, hafa þeir ekki hold og blóð sem þið? — særast þeir ekki með sömu vopnunum, deyja þeir ekki af sömu áverkum og hvað skyldi þá vera því til hindrunar, að þeir biðu lægri hlut fyrir oss?

2. BÓNDI:

Hafðu þína skoðun, jeg skal hafa mína, Þorleifur bóndi er vitrari en þú, og fjandarnir í Surtshelli máttkari en þú.

3. BÓNDI:

Já, það hefði jeg hugsað lagsmaður!

1. BÓNDI:

Trúið þið á fjandann í Surtshelli, ef þið ætlið hann máttkastan; þið eruð menn með litlu viti.

2. og 3. BÓNDI:

Erum við óvitrir?

1. BÓNDI:

Seint mun eg annað segja. Eða hver ber með ykkur um viturleikann.

3. BÓNDI:

(reiðir upp hnefann).

Það gerir þessi og komdu ef þú þorir.

1. BÓNDI:

Skyldara væri þér að halda eiða þína við bóndasoninn í Kalmannstungu, en að trúa á viturleik þinn og halda þá ekki. (fellir hann).

3. BÓNDI.

(um leið og hann stendur upp).

Ha! fellir þú mig ha!

GUÐMUNDUR.

(kemur inn).

Hættið þið að berjast! Það er skammarlegt að berjast eins og grimmir hundar sín á milli, þegar allir ættu að vera einhuga. Hreifið ykkur ekki! — Hafa Hellismenn komið til kyrkjunnar? (Einar kemur inn).

1. BÓNDI?

Þeir hafa komið og standa með alvæpni á kyrkjugólfinu. Hvað á að gera?

GUÐMUNDUR:

Allir, sem vopnum geta valdið verða að bíða hjer, þangað til jeg kem aptur, en þú Einar, ferð og safnar vopnum, þar sem þau fást. Dreptu heldur hvern hestinn á fætur öðrum, en að þú komir ekki nógu snemma aptur. (Einar fer). Svíktu mig ekki bóndi! láttu alla vopnfæra menn bíða. (Lítur á hann). Svíktu mig ekki. (Fer).

1. BÓNDI;

Nei, jeg skal aldrei svíkja hann þó þessir hjerar vilji það. (Bændurnir fara).

**Guðrún** og **Eiríkur**
(mætast).

GUÐRÚN.

Nei, dyrfist þú að ganga aleinn út?
æ elskaði vinur gættu að lífi þínu,
þó þú sjert hraustur, fjör þitt fallvalt er,
ó farðu á brott og hlýddu ráði mínu.

EIRÍKUR.

Jeg færi ei brott þótt líf mitt lægi við
því líf mitt er ei neitt hjá augum þínum.

GUÐRÚN:

En dauðinn læðist lífi þínu hjá
og leitast við að svipta þér í burtu.

EIRÍKUR:

Því ertu hrædd?

GUÐRÚN:

En hef jeg ekki nóg.
sem hræðslu mína geti styrkt og aukið?
Hjer sjerðu leiðin klæða kyrkjugarð,
með kvíðahrolli lít jeg sjerhvert þeirra,
er þú ert nærri; þar býr dauðinn undir,
og þar eru maðkar eins og bræður hans
til þess að hjálpa honum til að eyða
holdinu rotna; það er skelfilegt!
Ó, farðu' á brott!

EIRÍKUR:

En heldur þú jeg hræðist,
og hugur minn, sem aldrei fyrri brást
nú muni verða eins og auðbeygt sef,
þó ofurlítið talað sje um dauðann?

GUÐRÚN:

En fjendur þínir. fegnir vilja þeir
með frækleik, eða öllu heldur svikum
ræna þig lífi, þeir eru fjöldi að tölu
en þú ert einn. Ó, hafir þú nokkurn tíma
elskað mig, og hafi einhver æð
einhvern tíma slegið mjer til handa,
þá láttu eptir, líf þitt geymdu nú
ef lifa viltu að eins fyrir mig.

EIRÍKUR:

Jeg get ei farið þegar þú ert hjer,
því þú ert líf mitt.

GUÐRÚN:
(fellur í faðm honum).

Jeg verð þá að deyja
með þjer, því að það er verra en dauði,
að þurfa að lifa skilin svo frá þjer.
Hinn sami skal þá svipta okkur lífi
og sama vopnið nísta hjörtu okkar.
Jeg hræðist ekkert, allra sízt að deyja.

EIRÍKUR:
En hingað kem jeg næsta aftan til þín,
þá mun hver stund sem styzta augnablik
í stærstu sælu líða fram hjá okkur,
þá mun hún Nótt með svölum sumarvind
sælu okkar breiða yfir hraunið.

GUÐRÚN:
O, farðu vel! jeg heyri að þeir koma.
(Fer).

**Valnastakkur, Fjögramaki. Vilmundur, Atli og Hellismenn** (koma út úr kyrkjunni). **Bœndur og messufólk.**

FJÖGRAMAKI:
(til Valnastakks).

Þú skalt bjóða þeim að láta af hendi
þennan mann, sem gengur oss svo nær,
og jafnan mun þó sitja um oss með svikum,
í svefni og vöku.

VALNASTAKKUR:
Það er reyndar satt,

en þetta mesta víkingsráð jeg veit
og víkingsráðin get jeg nú ei þýðst.

EIRÍKUR,
(til Valnastakks).

En heimtaðu samt að hann sje fenginn okkur,
Því hann mun verða fótakefli þitt.

VALNASTAKKUR:

Fótakefli oh? En ætlar þú
að þeir hati sína beztu menn?
Það væri heimska.

VILMUNDUR:
(til Valnastakks).

Sumir sveitamenn
af sannri hræðslu næstum hníga niður,
þegar þeir líta okkur.

VALNASTAKKUR:

Eg veit það
að æðra er lagin djúpt í hjarta þeirra,
sverð skyldu annars síðu kenna þeim.
Jeg segi þetta að eins fyrir ykkur.
(til kyrkjufólksins).
Vill nokkur sveina segja vilja minn
að sjá jeg vilji Kalmanstungubóndann?
(Einn fer).
Jeg segi það, en síðan ekki meira
það sæmir ekki að rjóða kyrkjur blóði,

ÞORVARÐUR:
(kemur inn).

Hvað viljið þjer mjer?

VALNASTAKKUR:

Það skal óðar sagt.
Þú átt strax að selja oss í hendur
hann Guðmund son þinn sárt er reyndar það,
en sæmilega skal hann með mjer vera,
og svo skal honum ekkert verða unnið
illt, jeg legg þar drengskap okkar við.

ÞORVARÐUR:

Ah! Þetta var það. Hann er ekki heima,
og hvergi get jeg sjálfur fundið hann.
Þjer krefjist að jeg selji son minn fram,
hann son minn, von og ellistyttu mína.
Æ, hrífur ekkert yðar harða brjóst?
Er engin von? (grætur).
Æ, skal jeg missa hann?

FJÖGRAMAKI:

Seldu fram hann son þinn heljarkarl
því sæmilegri kostir bjóðast ekki.
Við leggjum allir okkar drengskap við
að ekkert honum verða skal að meini.

ÞORVARÐUR:

Nú hrynja fjöllin háu yfir hvamminn,
og hóta að gjöra frjófgan svörð að auðn.
Jeg sel hann aldrei yðar blóðgu höndum
því eg skal heldur láta drepa mig.
Þjer hyggið að jeg hræðist dauða minn,
— jeg hræðist ekki — því að ormur dauðans
með sárum tönnum slítur hjarta mitt,

og sigur yðar verður þá ei mikill.

FJÖGRAMAKI

Seldu fram hann son þinn heljarkarl
þú sigrar ekki mig með tómum orðum.

ÞORVARÐUR:

Þó jeg sje hrumur, orpinn ellihrukkum
og andarsjúkur, svo jeg viti ei
hvort jeg er í heimi þessum stundum,
og hyggi að jeg kominn þangað sje,
sem andar dauðra eins og úlfar þjóta
og alltaf heyrast náhljóð hvaðanæfa.
og haldi að jeg líði' í lopti bláu
og loptsjón glitri allt í kringum mig,
þjer viljið beita valdi í móti þeim,
sem voluð elli hefur sett í hlekki;
aflið það, sem armar mínir höfðu
með árafjölda hefur liðið burt;
jeg titra fölur, fótum hrumum á
og fell um allt, sem er á vegi mínum.
Og samt þjer viljið veita yfirgang
vesælum manni' og ræna 'ann gleði sinni.
(Hann grætur).

VALNASTAKKUR:

Grát þú ekki gamli hærði maður.
Jeg get ei sjeð að tár þín renni svo,
og væti svo óðum ellihrukkur þínar,
því jeg hef sama geð, sem aðrir menn,
Jeg hef aldrei látið gamla gráta
nje gert á hluta þess, sem afllaus var,

og trúðu því að hönd mín aldrei hefur
á hrumum manni unnið níðingsverk.

FJÖGRAMAKI:

En sitji hann á svikráðum við oss
svo mun jeg þá koma og hugga þig,
en þannig mun jeg þerra föðurtárin
að þvo þau af með blóði sonarins.

**Hellismenn** (fara út til vinstri, en) **Þorvarður** og **kyrkjufólkið** (til hægri).

**Guðrún** og **Sigríður** (koma inn, Guðrún styðst á öxl Sigríðar, og horfir á eptir **Hellismönnum**)

SIGRÍÐUR:

(bendir).

Horfðu á, þarna nema þeir staðar uppi á hálsinum; hvað skulu þeir ætla að gjöra?

HELLISMENN:

(syngja í fjarska).

(Lag: Stille, Stille, Natten sænker).

1. Förum vjer til fjallasala,
fannaskriður hátt þar tala
og hraunið kalda hlær;
það sem lífi öllu eyddi
yfir landið dauðann breiddi
er nú okkar bær.
: | : Sveipað dökkum dauðablæ
dimma hraunið brosir æ : | :
það brosir æ.

2. En þið fögru sælu sveitir

svölun ró og fögnuð veitið
friðar faðmi með.
Yðar þreyttur þanki leitar
þöglu svari byggðin neitar
um kyrran hvíldarbeð,
: | : Jeg óska að fyndist fjallatryggð
í faðmi þínum sæla byggð : | :
þú sæla byggð.

GUÐRÚN:
(bendir).
Horfðu á! hann er þarna yztur vinstra megin.

---

# II. þáttur.

## 1. Leiksvið.

(Leiksviðið er á sama stað í hrauninu sem fyrst í 1. þætti. Kvöld).

**Valnastakkur, Fjögramaki, Eiríkur, Geiraldur, Vilmundur** og fleiri **Hellismenn** (koma inn)

VALNASTAKKUR:
Hvað er þetta? Þiðrik kemur ekki,
þó er hann kænn og slægur öðrum fremur.
Jeg ætla vart að hann sje tekinn höndum
þó hrekki nokkra brúki sveitabúar;
vjer skulum bíða og vita hvort hann kemur,
þótt vonum bráðar dimmi.

(Þeir nema staðar).

VILMUNDUR:

Jeg er hræddur,
því lopt er dimmum þakið þokuskýjum,
og þögull vindur hvíslar feigðarlega,
er hann bærir lauf í lágum runna.
Það er sem fljótið þagni er það lítur
á þessa göngu vora Hellisbúar
og hvísli síðan hver einn dropi því
með kulda, og segi: „Þeir eru allir feigir!“

(Þiðrik kemur inn)

ÞIÐRIK:

Jeg hefi verið víða í Hvitársíðu
og veit því allt, sem bændur hafa gjört.
Þeir eru líkir þöglum þrömuskýjum
sem þyrpast saman fyrir stinnu veðri.

VILMUNDUR:

Jeg veit það glöggt, hvað vilja örlögin.

FJÖGRAMAKI:

Æ vertu ekki svona hræddur maður
þeir hafa ekki enn þá unnið stórt.

VALNASTAKKUR:

Ef þú veizt, þá segðu meira, Þiðrik!

ÞIÐRIK:

Í dag var öllum bændum boðað saman
og bera skyldi sjerhver þeirra vopn.
Sá hjet Gunnar sem að þessu vann,
sveinstauli ungur, jeg hef ekki sjeð hann.
Að máli Gunnars gerðu sumir menn

mjög góðan róm og síðan mikill flokkur
af bændum gengur Gunnars merki undir;
sem grimmir hundar ýlfra þeir af heipt.
Þeir sitja allir óðir fyrir oss,
þeir öskra hatri því að stórt skal vinna;
þeir sitja allir hjer í hrauninu
huldir dimmu og í vondu skapi.

VALNASTAKKUR:

Hvar sitja þeir?

ÞIÐRIK:

það sjálfur veit jeg ekki.
En Surtarhellir munu þeir ei verja,
svo mikla kænsku kennir enginn þeirra,
þó kænir þykist allir þessir menn.
En hjer er annað verra við að eiga,
því veslingarnir eru ei svo margir,
að vjer allir óttumst þeirra mergð
en aðrir fleiri komi að baki voru.
Frá Kalmanstungu kyrkjufólkið allt
mun koma þegar. Fyrir liði þeirra
er Guðmundur.
Jeg varð hræddur að hann yrði fyrri,
svo ekkert ljet jeg tefja mína ferð
og jeg er nær því nár af þreytu og mæði.

FJÖGRAMAKI:

En nú er tími til að hvílast, Þiðrik!

ÞIÐRIK:

Jeg hef engan tíma til þess nú.

FJÖGRAMAKI:

Jeg tel það ekki vert að mæða sig
þó maður sje að færa slíkar frjettir,
sem fregnir þessar
(til Valnastakks um leið og hann dregur sverð sitt úr slíðrum)
Hvað á nú að gera?

VILMUNDUR:

Jeg vil drepa allt sem okkur mætir
og engu hlífa, slátra þeim sem lömbum,
sjái jeg nokkurn svo skal undireins
sverð mitt nísta kauðans vesla hjarta.
Jeg vildi jeg næði í einhvern af þeim nú,
jeg andskotanum skyldi senda hann.

(**Atli** og fleiri **Hellismenn** koma inn).

ATLI:

Vjer erum eltir, óður hópur manna
á eptir okkur fer í grimmdarhug,
en myrkrið hindrar enn þá augu þeirra
í að sjá oss. Guðmundur er þar,

VALNASTAKKUR:

Hjer eru engin önnur ráð í móti
en við tökum sverðin ber í hendur,
og gjörum með þeim göng í bændaflokkinn,
því gott er víst að fá að reyna sig.
Jeg vona að þjer veitið mjer þann heiður,
að vera fremstur.

ALLIR HINIR:

Jú!

FJÖGRAMAKI:

Mig fýsir þá
að ganga nærri, helzt á aðra hönd
og horfa á þig ganga í vígahug.

EIRÍKUR:

Jeg ræð til annars, hraustu Hellismenn!
en hygg þó reyndar, að þjer fallist ekki
á ráð mitt. Jeg vil reyna til að eyða
ráðum þeirra og ginna þessi flón.
Jeg hef syndgað móti sveitabúum,
og sækist ekki eptir meiru illu.
Þjer hugsið ekki að ekkna tárin sár
og ástsöm móðir, sem af hjarta grætur
við sonarlíkið, auki syndir okkar,
á að bæta harmi þeirra við?
Vjer gætum allir farið fram hjá þeim
og forðast þá, því myrkrið hylur oss.

VALNASTAKKUR:

Jeg fellst á það og fæ þjer nú í hendur
foringjanafn mitt þessa skömmu stund.

EIRÍKUR:

Valnastakkur og Þiðrik fari fyrstir
en farið hægt.

(**Valnastakkur** og **Þiðrik** fara).

Og síðan skulu fara
garpurinn Atli og Geiraldur með honum
en gangið ekki þó á eptir hinum,
en til hliðar.

(Ha n lætur **Hellismenn** fara tvo og tvo, og síðast eru þeir **Fjögramaki** tveir eptir).

FJÖGRAMAKI:

Og við eigum að vera síðastir.
jeg vildi að jeg hefði notið þess
að hjarta ber jeg; haft mig nokkuð fram,
Jeg hefði viljað fylgja Valnastakki.
Þá skyldi sverð mitt hafa kveðið hátt
á höfuðskeljum ragra sveitabúa.

EIRÍKUR:

Sjer þú ekki að hjer er hættan meiri,
því höfuðsveitin er að baki voru;
við erum hnepptir hart á milli steðjans
og hamarsins. Við megum gæta okkar.
Að framan Gunnar, Guðmundur að baki,
með grimmd í huga sitja þeir um okkur.
Jeg duga vil.

FJÖGRAMAKI:

Með dáð og karlmannshuga
og drengskap vil jeg reyna að fylgja þjer.
Jeg titra af gleði af því eg skal berjast.

EIRÍKUR:

Og áfram nú, jeg hræðist engan mann.
(Þeir fara).

**Guðmundur, Einar** og **vopnaðir menn** (ýmislega búni að vopnum koma inn).

GUÐMUNDUR:

(til Einars).

Heyrir þú nokkuð?

EINAR:

Nei.

GUÐMUNDUR:

Við skulum hlusta! (hlustar). Hreifið þið yður ekki, standið þjer grafkyrrir (hlustar).

EINAR:

Heyrir þú nokkuð?

GUÐMUNDUR:

Æ, truflaðu mig ekki, lofaðu mjer að vera, — Hellismenn skyldu vera sloppnir!

EINAR;

Það getur aldrei verið.

GUÐMUNDUR:

Það er lítt mögulegt að þeir sjeu sloppnir, við hefðum orðið að heyra eitthvað til þeirra.

EINAR:

Það er satt, því Gunnar hefði aldrei sleppt þeim fram hjá sjer, án þess að höggva nokkur högg.

GUÐMUNDUR:

Það er satt! en þey! þey! þey! — mannamál! — Þjer getið aldrei verið kyrrir! Það er ómögulegt að vita hvort það eru Hellismenn, eða okkar menn. Þjer megið ekki hreyfa yður, ekki draga andann! (Hann leggst niður og og hlustar nokkra stund).

EINAR:

Heyrir þú nokkuð?

GUÐMUNDUR:

Hafið þjer lágt. Hjer er einhver á gangi í hrauninu og það skammt frá. (stendur upp).

EINAR:

Jeg heyri mannamál.

GUÐMUNDUR:

Þekkir þú það? jeg heyri eitthvað einnig. Þey! þey! hver er svona í málrómnum? Þekkir þú hann Einar?

EINAR:

Nei.

GUÐMUNDUR:

Farðu strax og segðu hinum flokknum að þeir skuli breiða sig út yfir hraunið sem hljóðlegast, því ef jeg get rjett til, þá eru Hellismenn á milli flokkanna. Menn verða heldur að falla hver um annan þveran, en láta þá sleppa; jeg kem á sama augnabliki sem þörf gerist. Vjer skulum ekki láta þá standa einmana. Farðu varlega, því áríðandi er að orð þessi komist til Gunnars.

(Einar fer).

(til bændanna).

Komið þjer nú strax, en gætið þjer þess að ganga ekki fram á mennina, sem á undan yður eru. En undir eins og fyrsta sverðshöggið heyrist, þá er yðar þörf. — Nú getur enginn yðar verið hræddur,

(Mennirnir fara).

— Nú er allt undir einni stundu komið og jeg er veikur af von og hræðslu. En hver vill styrkja mig? (fellur á annað knjeð) hver vill hjálpa mér? Heilaga móðir! — — — — (stendur upp) Nei, jeg get ekki, jeg hef svo mikið að hugsa. (rólegri) Tilviljun er það, teningskast er það. Hjálpaðu þjer sjálfur!

(fer).

## 2. Leiksvið

(Annarsstaðar í hrauninu dimmt er orðið).

**Gunnar** og **vopnaðir menn** (koma inn).

GUNNAR:

Verið nú viðbúnir, og verið ekki hræddir, því að nú býðst yður tækifæri til að reka óaldarflokk þennan af höndum yðar. Munið nú hverjar sakir þjer eigið við Hellismenn. Munið allt sem þeir hafa gert yður, því nú er tíminn kominn til að hefna þess. Ef þjer eruð ófimir að berjast þá stigið fætinum framar og gangið vel nærri, því þá verður vopnfimi miður komið við, Sjeu sverðin yðar sljó, þá brýnið þau á pönsurum Hellismanna þangað til þau bíta. Hver fer þar?

(Einar kemur inn).

EINAR:

Guðmundur er tilbúinn hér skammt frá.

GUNNAR:

Velkominn! Veistu nokkuð um Hellismenn?

EINAR:

Þeir eru að líkindum milli okkar; þú átt að láta þína menn breiðast út um hraunið, því að ekki er víst hvar þeir koma að.

GUNNAR:

Það hef jeg áður gjört.

EINAR:

Þá er vel! farðu hljóðlega, farðu varlega!

(fer).

GUNNAR:

(við sjálfan sig).

Fari jeg varlega; því hefur hann bætt við frá sjálfum sjer, af því hann er hræddur — — skammarleg raggeit!

**2 ungir sveinar** (koma inn).

1. SVEINN:

Nú kemur mannflokkur hjer í hrauninu. Við erum hræddir um að það sjeu Hellismenn.

2. SVEINN:

Þeir eru fjarska margir.

GUNNAR:

(lítur við þeim).

Ungir hermenn! hvernig ganga þeir?

1. SVEINN:

Þeir ganga í hópum.

2. SVEINN;

Þeir hafa voðalega breið spjót.

GUNNAR:

Þekktuð þið nokkurn þeirra?

1. SVEINN:

Nei, engann.

2. SVEINN:

Jeg þekkti heldur engan, það er ekki gott að sjá í þessu myrkri.

GUNNAR:

Hvernig voru þeir vopnaðir?

1. SVEINN:

Það sáum við ekki, við gátum ekki komist svo nærri, en þeir fóru heldur hægt.

GUNNAR:

(brosandi).

Eruð þið fróðari, hermenn?

1. SVEINN:

Svo sáum við enn tvo menn; þeir fóru stundum hart, en stundum stóðu þeir við og bentu í allar áttir. Þeir töluðu lágt.

2. SVEINN:

Þeir horfðu allt í kringum sig. Stundum lögðu þeir sig niður og hlustuðu niður í jörðina.

GUNNAR:

Hvað töluðu þeir?

1. SVEINN:

Jeg gat ekki heyrt það, hann föðurbróðir okkar heldur ekki, nema þegar þeir komu upp á eina hæðina í hrauninu, þá sagði annar:

„Ekki þessa leið". Svo hurfu þeir í hraunið

2. SVEINN:

Mjer þótti verst þegar þeir hurfu, því jeg varð svo hræddur um, að þeir kæmu aptur upp úr hrauninu fyrir aptan mig.

GUNNAR:

Sáust þeir ekki aptur?

1. SVEINN:

Og svo sendi föðurbróðir minn okkur til að segja þjer þetta, því hann mátti ekki fara burt af staðnum.

2. SVEINN:

Við hlupum eins hart eins og við gátum, þangað til við sáum ykkur, þá urðum við hræddir, þangað til við þekktum málróminn þinn.

GUNNAR:

Farið þið til hinna af mönnum vorum og segið þeim að þar sem Hellismenn komi — því þetta hafa þeir verið, en þeir hafa sent þessa tvo á undan sjer, til að njósna um veginn — segið mönnunum að þar sem Hellismenn komi, þar skuli þeir læðast á undan þeim, þangað til vjer höfum slegið hring um þá. Þá skulu þeir fremstu stöðvast og taka á móti og mun þá ekki langt verða, áður en hinir ganga öllu megin að þeim. Guðmundur verður kominn í leikinn áður en nokkur maður blóðgast. Farið vel! og segið þetta.

1, SVEINN:

Æ, jeg þori það ekki.

2, SVEINN:

Jeg er dauðhræddur. Nei, nei, jeg vil ekki vera í stríði.

GUNNAR:

Við hvað eru hermennirnir hræddir?

1. SVEINN:

Jeg er svo hræddur, því jeg heyrði hann föðurbróður okkar segja, að þeir gætu leynst alstaðar í þessu myrkri.

2. SVEINN:

Það er hræðilegt — þeir geta drepið mann. — Nei, jeg skal ef jeg kemst lifandi burt, aldrei nokkurn tíma fara aptur í stríð!

GUNNAR:

(til bændanna).

Þeir eru börn! en jeg vil þá biðja einhvern yðar að fara, til þess ætti þó reiðin og hefndargirnin að veita yður hug. Sjálfum mjer ætla jeg að standa hjer yfir þveran veginn,

MENNIRNIR:

(hver fyrir sig).

Æ, ekki fer jeg það.

GUNNAR:

Er það satt? Eruð þjer þau börn að þora ekki að ganga þverfótar fyrir Hellismönnum? Jeg þori að anda fyrir þeim og skal jeg víst

sjálfur fara, Ef þjer verðið ekki við skyldu yðar þegar jeg kem aptur, skal jeg píska yður, svo skinnið fláist af baki yðar. — Tóm ragmenni, allir ragmenni! (til sveinanna) Jeg skal færa ykkur aptur föðurbróður ykkar.

(Gunnar leiðir sveinana út).

3. BÓNDI:

(frá I. þætti).

Gunnar er reiður þegar hann skammar okkur svona. Þar var líka nokkurt tilefni til, þegar enginn þorði að fara, en nú þyrði jeg að fara hvert á land sem vill fyrir Hellismönnum, því nú þykir mjer fyrir.

2. BÓNDI:

(frá I. þætti).

Það er nokkuð seint að láta sjer þykja nú; þú hefðir átt að láta þjer þykja, þegar hann spurði hvort nokkur vildi fara, því að þá hefði hann ekki þurft að ómaka sig.

3. BÓNDI:

Vertu ekki að leggja mjer þetta til lýta; þjer ferst það illa, þú þorðir heldur ekki að fara.

2. BÓNDI:

Þorði jeg ekki að fara? jú, víst þorði jeg. Heyrðuð þið ekki að jeg sagði já, þegar hann spurði að þessu,

3. BÓNDI:

Það hefur víst enginn heyrt að þú segðir

já. Þú ert ekki vanur að vera framur til stórvirkjanna. Heyrði nokkur ykkar að hann segði já.

HINIR,

Nei.

2. BÓNDI:

Það var heldur ekki von að þið heyrðuð það; þið grenjuðuð svo hátt að þið þyrðuð það ekki, að enginn gat heyrt mig segja já.

3. BÓNDI:

Þú sagðir ekki já!

2. BÓNDI:

Jeg sagði víst já!

3. BÓNDI:

Það er lýgi!

2. BÓNDI

Það er aptur lýgi!

3. BÓNDI:

Við fáum að sjá það, þegar Hellismenn koma, hvað mörg já þú býr til með vopnunum þínum,

2. BÓNDI:

Við fáum líka að sjá, hvað mikið þjer þykir fyrir, á því hvað þú gengur nærri Hellismönnum.

3. BÓNDI:

Já bíddu við lagsmaður! Hver fer þar?

GUÐMUNDUR:

(kemur inn).

Vinur! — Er Gunnar hér?

3. BÓNDI:

Nei; en hann kemur hingað bráðum.

GUÐMUNDUR:

Hafið þjer orðið varir við Hellismenn?

2. BÓNDI:

Nei, en þeir geta komið á hverju augnabliki, því það hefur heyrst til þeirra.

GUNNAR:

(kemur aptur).

Ertu kominn, ó nú veit jeg glöggt
að æðri verur hlynna að málstað vorum.
En hefur þú ei hitt á Hellismenn?
hjer hef jeg beðið, þeir hafa ekki komið.
Hvar eru þeir?

GUÐMUNDUR:

Ja, ekki get jeg sagt það,
mín ætlun var nú að þú mundir hafa
fundið þá. Jeg fór því hingað strax,
því fjarri sitja var mjer ekki skapfellt,
er aðrir berðust.

GUNNAR:

Eg hef beðið hjer
og ávallt búist við því að þeir kæmu;
en hjer hefur ekki orðið nokkurs vart
sem eg get talið; en vjer höfum vonir.

GUÐMUNDUR:

Jeg er kominn hjer með mína menn,
en mestur hluti þeirra er á eptir;

það getur ekki öðruvísi verið,
en að fjandmenn vorir sjeu á milli
manna vorra. Þá eru þeir í klípu.
þröngri nokkuð; slíkt skal hlægja mig.
Hvað hyggur þú?

GUNNAR:

Jeg hygg þeir sjeu á milli
og hópar manna vorra kringi um þá
og þá er búið, því að gifta mun
þessar vorar fyrirtektir styðja.

GUÐMUNDUR:

Trúðu ei giptu, trúðu sjálfum þjer
það tekst víst bezt og það hef jeg opt reynt.
Vinn þú sjálfur, vinnan mun þá heppnast
ef vel þú býr þig; annars lánast ekkert.
Allir verða að svitna til að öðlast
það, sem þeir girnast.

GUNNAR:

Góðar hef jeg vonir.
að gagn mun' verða að fyrirtæki okkar.
Það er víst að þeir eru ekki komnir,
því jeg hlyti að vita af ferðum þeirra
hefði það verið.

GUÐMUNDUR:

Og þeir gátu ekki
af veginum farið svo jeg vissi' ei til.
svo vonum mínum geta sverðin fullnægt,
sje lipurt höggvið.

GUNNAR:

Loksins fæ jeg þá
að leika mjer við einhvern Hellisbúa,
en þeir eru ekki allir saman hjer
en eitthvað færri.

GUÐMUNDUR:

Hjer eru menn á gangi.

(Þögn og viðbúningur).

Jeg sá þar glámsýn, það eru stórir steinar
sem storka okkur með að líkjast mönnum.

(til Gunnars).

Vjer erum tvöfallt, tvöfallt fleiri en þeir.

GUNNAR:

Tvöfallt fleiri! Telurðu það hreysti
mót tveimur einn, ei drengjum þykir jafnt.

GUÐMUNDUR:

Er jeg að tala um eðallyndi nú?
Jeg er að tala um manndráp, svik og víg,
Geti jeg ekki gjört eitthvað með rjettu,
gjöri jeg það með valdi, Gunnar minn,
En geti jeg ekki gjört eitthvað með valdi,
þá geri jeg það með ráðum, prettum, vjelum.
Það er hin rjetta aðferð

GUNNAR:

Ekki er það!

GUÐMUNDUR:

Sendu þá flesta sveina þína brott
svo þú hafir ekki fleiri en 18

og berstu svo á bezta hátt þú getur,
en bezt er þá að jeg sje sendur heim,
og sýndu hvaða heiður þú færð hlotið
af Hellismönnum. Þú munt verða undir.

GUNNAR:

Það var heldur ekki ætlun mín,
því eg vil sigra.

(bítur á vörina).

Þar kemur einhver! eru allir til?

(**Guðmundur** og **Gunnar** bregða sverðum, bændurnir búast og hnappast um þá).

(**Eiríkur** og **Fjögramaki** koma inn).

EIRÍKUR:

Hjer blika vopn að framan! fyrirsát!
Eruð þjer fjendur eða vinir okkar?

GUNNAR:

Af alúð fjendur.

EIRÍKUR:

Svo er jeg þá neyddur
að verja mig á móti hverjum óvin.

FJÖGRAMAKI:

Mætari stundu hef jeg aldrei lifað
Þeir eru margir, svo skal sverðið mitt,
sem svipa dauðans blika tíitt á lopti.
Ó hjarta mitt það hoppar nú af gleði,
sem hyggði jeg að stíga í brúðarsæng.

GUNNAR:

Það er bezt að brúður sje jeg þín,
jeg býst þó við jeg verði kannskje ekkja.

(Þeir berjast. Bœndurnir sækja að þeim. **Fjögramaki** særir einn af bændunum).

FJÖGRAMAKI:

(til þess særða).

Þú ert frá, en flyttu fyrir mig
til fjandans kveðju allra bræðra þinna.

(**Eiríkur** og **Fjögramaki** komast gegn um flokkinn).

(til bændanna).

Hann Gunnar verður aldrei ekkja í kvöld,
en á jeg ekki að heilsa Valnastakki
frá yður Gunnar! Allir Hellismenn
eru komnir fram hjá mönnum þínum.

(**Eiríkur** og **Fjögramaki** fara)

GUÐMUNDUR:

Vjer eltum þá, þeir ættu ekki að sleppa
því æru vora kosta þessi líf.

(Þeir fara hvatlega út)

HINN SÆRÐI:

(rís upp á olnboga og lítur um sig).

Og engin sól skín ennþá á austurgluggann. Jeg þekki ekki lengur rúmið mitt. jeg hef vaknað of snemma.

(Hnígur niður aptur. Þögn)

Sigurður! Sigurður! Kondu blessað barnið mitt! jeg er þreittur, jeg vil hvíla mig lengur þetta eina skipti. Hagræddu mjer, taktu steinana undan herðunum á mjer; hún móðir þín hefur gjört rúmið mitt grýtt. Nú vil jeg sofa.

(Andvarpar og deyr).

(1. bóndi frá 1. þætti og einn maður úr liði Gunnars koma inn]

MAÐURINN:

Þessir menn höggva svo, að hvorki stendur fyrir hjálmur nje brynja.

1. BÓNDI:

Sloppnir! Sloppnir! en högg þeirra nema bráðum staðar í heila sjálfra þeirra.

MAÐURINN:

Þegar þeir hlaupa ætlar hraunið að springa undir fótum þeirra.

1. BÓNDI:

Í kvöld liggur því við að springa, en seinna mun það klofna og gleypa þá.

MAÐURINN:

Því lætur þú svona? Hvelfingarnar í Surtshelli, sem náttúran hefur skapað fyrir jötna, eru ekki nógu stórar handa þeim.

1. BÓNDI:

Og þessvegna munu þær hrynja yfir þá og merja sundur hvern legg og lið í þeim.

MAÐURINN:

Þarna er sönnunin fyrir mínu máli (bendir á þann dauða), og þetta gera tveir menn (gætir betur að) það er afstaðið fyrir aumingja manninum. — Konan hans var honum ávallt þung í skauti, ekki mun hún samt blessa Hellismenn.

1. BÓNDI:

Óbænir hennar verða höfuðsbani þeirra.

MAÐURINN:

Hellismenn verða aldrei unnir.

1. BÓNDI:

Heyr á endemi! Dauði þessa manns kemur því til leiðar, að skömmu hjer eptir munu allir Hellismenn sitja í blóðugum kyrtlum við eldana hjá Satan.

(fer hvatlega út).

(**Guðmundur, Gunnar** og **bændur** koma inn).

GUNNAR:

Þjer skuluð bera bónda þennan heim,
því blóð hans þyngir hjartasorgir mínar;
þjer getið farið hver með öðrum heim,
og haft það frelsi er yður þykir bezt.

(Allir mennirnir fara og bera þann dauða með sjer)-

Þeir voru allir farnir fram hjá mjer!
jeg finn til þess að jeg má roðna af feimni.
Er þá nokkur hefnd á himnum til,
er Hellisbúar geta sloppið þannig?
Skal órjetturinn ávallt sigur fá,
og enginn saklaus halda rjetti sínum?
Skal fantur trampa heimsins helgu lög
með hæðni í duftið, sá er vill þau styðja
farast? Er þá ekkert rjettlátt til,
og engin stjórn?

GUDMUNDUR:

Og láttu ekki svona

við höfum sjeð hvað valdið vinna má,
jeg vil nú reyna að gjöra það með vjelum;
því ættum við að reyna að brúka rjett,
er rjetturinn gálginn, þar skyldu þeir hanga
sem hundar; reyndar helzt til gott það er;
því hundar eru betri en nokkur þeirra.

GUNNAR:

Finndi jeg hann Fjögramaka enn,
og fengi' eg náð til hans með sverði mínu,
þá vildi jeg heldur láta líf mitt strax,
en láta' ann komast ósærðan á brottu.
Þó sverð hans blóðugt nísti brjóstið mitt
og brodd þess kaldan finndi í hjarta mínu;
jeg skyldi ganga skyggðan fram á geir,
og skilja sálu hans frá líkamanum.
Og gæti dauðinn dapri verið sætur,
jeg deyja skyldi þannig gleði með,
er dauðlegs fjandmanns dauðastunur heyrði
svo draugalega blandast mínar við.
Ó Hellismenn!

GUÐMUNDTR:

En gættu að því Gunnar
nú gagnar ekki heiptaróskin tóm.
En reyndu að koma því til vegar þannig
að þið hittist. Bezt er að hugsa fyrst,
en þegja samt og segja ekki neinum,
og síðan gjöra það sem hugsað er.
Þeir skulu ekki lengi leika glaðir,

þó lifi þeir allir kátir þetta kvöld;
þeir koma tímar, að þeir allir liggja
eins og fje það sem þeir hafa rænt.

GUNNAR:

Jeg get ei sofið fyrir Fjögramaka,
því fús jeg vildi deyja skipti þrjú,
til að geta greitt hans veg til Heljar.
Af gremju og skömm; eg má ei líta upp!
Að tveir menn skuli sundra svona mörgum
og síðan kjósa mann í heilum flokk
og særast ekki, ekki einu sinni
annar þeirra.

GUÐMUNDUR:

Það er dæmafátt.
En þó þeir sjeu djarfari en djöflar,
með dug og ráðum skal jeg vinna þá.

GUNNAR:

En ef bændur ekki fylgja þjer?

GUÐMUNDUN:

Ekki fylgja? jeg skal neyða þá;
þeir skulu hlýða ef jeg ætla og vil það;
engan þyrfti að skorta ráð til þess.
En nótt er dottin yfir fölva foldu
og fyrir því er bezt að komast heim.

(Þeir fara)

# III. þáttur.

## 1. Leikvsið.

(Í Surtshellir. Há hvelfing sem hverfur innst í myrkrið. Aptarlega stórt gat á hellisrjáfrið, sem tungsljósið streymir niður um. Þar fyrir framan há klakaborg á gólfi og klakastönglar niður úr loptinu, sem stirnir á þegar ljósið af tunglinu eða kyndlunum fellur á klakann. Fremst autt. Hellirinn er lýstur upp með kyndlum fremst.)

(**Valnastakkur, Fjögramaki** og **Þiðrik.**)

VALNASATKKUR:

Það var leitt að eg var ekki þar,
sem Eiríkur og Fjögramaki börðust.
Af viðureign þeirra að vísu get jeg sjeð,
að vel þeir börðust eins og hetjum sómir.
Það kætir ávallt karlmannslund og hug
að kynnast hreysti röskra drengja og vörnum.
Af þessu geta sveitabúar sjeð,
að sveinum fremur líkjast þeir en, mönnum.

ÞIÐRIK:

En þótt þeir hafi hvorki hug nje dug,
og hafi flest af skapi mæðra sinna,
ráð þeirra eru kaldari en kvenna,
jeg kvíði þeim, en ekki hreysti þeirra.

FJÖGRAMAKI:

Jeg veit glöggt þó hærra bærum hlut
í höggvaskiptum, að þeir geta sigrað

oss með vjelum; ekki var það lið
sem ávantaði, jafnvel ekki hreysti,
en samhuga sókn; þeir sóttu að í myrkri
og sæki þeir aptur, fer það máskje betur,

VALNASTAKKUR:

Dagur sá er ekki kominn enn,
sem okkur sýni hvað það er að deyja.
Þið sáuð hvernig sveitamannabrögð
sundur stukku, eins og brunninn þráður;
og svo mun fara fleiri skipti en nú,
að fá þeir sneypu er höggva menn að baki.
Jeg hef ekki að óttast nokkurn hlut,
þótt allir vjelar noti sveinar þessir,
því hreysti þeirra höfum vjer nú reynt
og hrekki þeirra, sem eru engu meiri.

FJÖGRAMAKI:

Mig grunar að þeir síðast sigri oss,
þótt sumum muni ekki líklegt þykja.
Þessi hugsun þó hún sje ei ljós;
hún þvingar mig og fylgir mjer í svefni.
Um daga leynist hún í huga mjer
og hylur sig, en jeg er ekki hræddur.
Jeg veit það fullvel, að jeg eitt sinn skal
mót örlögum ganga

VALNASTAKKUR:

(brosandi).

Það er ekki hetja,
sem mælir æðru.

FJÖGRAMAKI:

Ekki hræðist jeg,
en jeg veit þó hvernig fara muni,
og hjarta þetta, það mun slá eins hægt,
þó það ætti að skerast hjeðan brottu
og það sló áður. Þú ert reiður mjer,
mjer þykir einnig, svo er bezt að þegja.
(fer).

VALNASTAKKUR:

Svo honum þótti, það var náttúrlegt,
en þessi grunur er mjer fjarri skapi;
víst geta allir gengið heimsins veg,
en grunur þessi hvað á hann að þýða?

ÞIÐRIK:

Allt mun verða einu sinni fyrst
og enginn þekkir hvílíkt skapadægur
hann fái. En jeg fylgja skal þjer trúr
þó falli allt, sem er í kringum okkur.

VALNASTAKKUR:

Þú ert hraustur, hyggni þín' jeg met
þó hálfu meira en alla krafta þína.
(kreystir hann)
Jeg man það nú að þeir vilja skjóta á þingi,
Þiðrik, bið þú Hellismenn að koma.
(Þiðrik fer)
þeir vilja flestir fara hjeðan braut
og forðast manndráp, það er ei minn vilji,
því þessi hvelfing hrapar heldur niður,
en heyrist það að jeg sje flúinn burt.

(**Geiraldur, Vilmundur** og fleiri **Hellismenn** koma inn)

VALNASTAKKUR:

Er það tíðræddast meðal Hellismanna, að flytja sig burt úr Surtshelli?

VILMUNDUR:

Víst er svo, því Hvítársíðingurinn vill drepa okkur.

VALNASTAKKUR:

Það hefur hann lengi viljað, Vilmundur! Koma ekki fleiri?

(**Atli Þiðrik** og fleiri **Hellismenn** koma inn)

Eru þeir margir, er vilja að vjer flýjum hjeðan?

ATLI:

(gengur fram)

Enginn! En allmargir vilja að vjer flytjum oss hjeðan.

GEIRALDUR:

Það nafnið þykir þjer betra Atli.

(**Eiríkur** og **Fjögramaki** koma inn)

EIRÍKUR:

Um hvað er talað?

ATLI:

Um það, hvort Hellismenn skuli flytja sig hjeðan.

FJÖGRAMAKI:

(lágt til Eiríks)

Hljóðaðu ekki þó komið sje við kýlið.

VALNASTAKKUR:

Hvers vegna viljið þjer flytja yður hjeðan?

VILMUNDUR:

Hvítársíðingurinn er mannmargur, hefur gleymt allri undirgefni og heldur oss lítið betri en ránsmenn og stigamenn.

GEIRALDUR:

Þar talaði hræðsla og hún vopnlítil.

ATLI:

Ekki er þetta hin eina ástæðan, foringi! Guðmundur heldur enga eiða, og bændum stendur því meiri ófagnaður af oss, sem vjer sitjum leingur. Svo þykir mjer lítill drengskapur, að sitja hjer til æfiloka.

GEIRALDUR:

En hvert skal þá fara Atli?

VILMUNDUR:

Fyrir oss er allur heimurinn opinn.

FJÖGRAMAKI:

(brosandi)

Nema Hvítársíðan!

ATLI:

Það höfum vjer einnig hugsað. Á afrjetti Skagfirðinga og Húnvetninga er staður, sem heitir að Hveravöllum, þar er auð jörð vetur allan; þar gætum vjer byggt vígi og búið oss á sama hátt undir veturinn og hjer.

NOKKRIR:

Á Hveravöllum viljum vjer vera.

FJÖGRAMAKI:

Þeir eru orðnir kulsælir Hellismennirnir!

VALNASTAKKUR:

Hraunveggirnir að Surtshelli eru betra vígi en hundaþúfurnar á Hveravöllum.

GEIRALDUR:

Og Norðlendingar harðari í horn að taka en Hvítársíðumenn. Ekki er nú langt síðan að þeir fóru með 300 manna móti Jóni Skráveifu og enn styttra síðan þeir drápu Smið og fjelaga hans á Grund.

VALNASTAKKUR:

Jeg er kominn af Ásbirningum, og hjet jeg því, þegar vjer riðum suður Kjöl frá Hólum, að jeg skyldi ekki til Norðurlands koma og vil jeg ekki norður þangað, þó vjer fyrir litlar sakir höfum mátt rýma Norðurland.

FJÖGRAMAKI:

Og sverð mitt hefur Kolbeinn Tumason átt; jeg vil ekki bera það móti Norðlingum.

ATLI:

Hafi hann borið það á Víðirnesi, þá er ekki illa til fallið að hefna hans með því.

VÁLNASTAKKUR:

Leggur þú ekkert til Eiríkur?

EIRÍKUR:

Jeg vil ekki bera vopn móti gömlum frændum og vinum þar nyðra, og því síður ræna þá. Kjalvegur er þar mjög nærri, og ef hann er ræntur, þá sækja oss Norðlendingar að norðan,

Sunnlendingar að sunnan, og er þá alllíklegt að þeim sækist vel.

FJÖGRAMAKI:
(lágt til Eiríks).

Og þá verður svo langt að sækja kossana til Kalmanstungu.

ATLI:

Þá er annar staður og það er Ódáðahraun, þar eru fylgsni góð og afrjettir nærri og Sprengisandsvegur rjett fyrir vestan, hraunið ósækjandi því þar ratar enginn og þar verður engum hestum komið við til leitar.

GEIRALDUR:

Hann vill alstaðar vera Þrándur í Götu, en ískyggilegt er orðið að vera hjer.

EIRÍKUR:

Ef þú vilt með því komast hjá manndrápum, þá er unnið fyrir gýg, þá verður farið að okkur um vetur, og í nærliggjandi sveitum hafa jafnan beztir skíðamenn verið; þá ber fljótt yfir og í snjónum rekja þeir spor vor.

FJÖGRAMAKI:

Ekki er mjer fjarri skapi að gjörast landnámsmaður þar.

EIRÍKUR:
(lágt)

Hjer verður þá að líkindum að skilja með mjerog landnámsmanninum, þó við höfum öðru heitið.

VALNASTAKKUR:

Ekki mun jeg til Ódáðáhrauns fara, en farið þjer þangað, ef jeg fell.

ATLI:

Þar lagðir þú háls okkar allra undir öxi Guðmundar, fyrst þú vilt hjer kyr sitja.

VALNASTAKKUR?

(um leið og hann lítur til Fjögramaka.)

Margir mæla æðru orð í kvöld.

FJÖGRAMAKI:

(bítur á vörina)

Víst skal sitja Surtshellir sem fastast, og mun jeg hjeðan aldrei fara.

ATLI:

Nú skal sitja sem fastast, og mun jeg ekki flytja mál þetta lengur.

GEIRALDUR:

Þá mun jeg taka við, þó jeg sje því ekki mjög hlynntur. Hið þriðja og bezta er, að vjer förum allir utan og göngum á mála hjá einhverjum herskáum konungi. Fararefni höfum vjer nóg.

MARGIR:

Og það er frami hinn mesti.

FJÖGRAMAKI:

Ekki mun jeg taka orð mín aptnr, þó sjá megi að mörgum þykir þetta ráðlegast, og skal nú setið fastara, en fyrr.

EIRÍKUR:

En hvern veg sjáið þjer til að komast af landi burt?

GEIRALDUR:

Skip liggur niðrá Hvítárósi, og með því getum vjer farið utan.

VALNASTAKKUR:

Enn verði skip þetta apturreka, hvar stöndum vjer þá?

VILMUNDUR:

Surtshellir stendur oss eins opinn þá og nú.

FJÖGRAMAKI:

Og Hvítársíðan verður þjer eins hræðileg þá og nú.

VALNASTAKKUR:

Vjer komum í Surtshellir, en Surtshellir hefur engan vetrarforða, vjer verðum neyddir til að gjöra herhlaup niður í byggðina. Vjer tökum upp heil bú og konur og börn mega leggjast á klakann. Sveitamenn álíta að vjer höfum ætlað að flýja, þeim eykst hugur við það, en hatur við ránin· Og hvað eigum vjer að gjöra við þessa kerlingu, sem Guðmundur lofaði að lifa þegar hann strauk. Eigum vjer að skilja. hana eptir eða á hún að ganga á mála með oss?

VILMUNDUR:

Drögum belg á höfuð henni og berjum hana grjóti til bana.

EIRÍKUR:

Skammastu þín!

VALNASTAKKUR:

Jeg fæ ekki sjeð að vjer sjeum þeir sveinstaular Hellismenn að vjer þurfum að þjóna öðrum. En ef ekki þykir sómi annað en þjóna höfðingjum, þá getum vjer haldið uppteknum hætti, því vjer erum allmiklir höfðingjar sjálfir og sómir bezt að þjóna sjálfum oss. Og flestum af oss mun mikið þykja, ef vjer skulum lúta útlendingum, eða biðja þá ásjár, þegar vjer höfum haldið oss of mikla garpa til að lúta lögum lands þessa og höfðingjum þess. Jeg sje heldur ekki hvert leita skal, nú sækja ekki Væringjar lengur til Miklagarðs. Karl keisari lætur draga Ítalíu úr höndum sjer friðsemis vegna. Játvarður Englakonungur fór síðast litla sæmdarför til Frakklands. Karli Frakkakonungi þykir mest undir að vera sem vitrastur og vil jeg engum þessara þjóna. Þykir mjer þá blóð vort þunt orðið, ef vjer skulum selja það við skotsilfri smákonunga. (Þögn.)

ATLI:

(lágt til Geiraldar)

Ekki er enn kólnað Sturlungablóðið.

GEIRALDUR:

(lágt til Atla)

Þess er engin von, þeir voru jafnan harðastir er til tíðinda horfði.

FJÖGRAMAKI:

Er svo ekki úttalað um þetta mál?

GEIRALDUR:

Ekki mun jeg mæla móti hjerveru vorri, en þetta ráð vildi jeg helzt taka.

VALNASTAKKUR:

Hverjir halda vörð í nótt?

FJÖGRAMAKI:

Geiraldur og Atli.

VALNASTAKKUR:

Verið þið árvakrir. (Allir Hellismenn fara nema **Geiraldur** og **Atli**; þeir ganga um gólf).

GEIRALDUR:

Það verður kalt í nótt!

ATLI:

Svo hefur hann jafnan verið, súgurinn í Surtshelli. (Þögn.)

GEIRALDUR:

Hver er þar?

ATLI:

Sástu nokkurn? Hver fer þar?

GEIRALDUR:

(hrekkur við).

Hvað segir þú, er þar nokkur:

ATLI:

Sástu engan? þú heldur vörð í svefni.

GEIRALDTR:

Jeg sagði ekkert. Jeg veit ekki hvort jeg sá hvítklædda konu,

ATLI:

Svefninn talar fyrir þig; við skulum halda vörð við hellismunnan. Náttloptið vekur þig.

GEIRALDUR:

Já við hellismynnið.

(taka blysið og fara)

## 2. Leiksvið.

( Afhellir í Surtshelli; blys logar á gólfinu. — Hellismenn sofa með alvæpni, hver við annars hlið. **Eiríkur** og **Fjögramaki** eru yztir öðrumegin).

FJÖGRAMAKI:

(rís upp á olnboga)

Að þú skulir tala þannig vinur minn,
þú sem veizt að það er ekki hetja
sem mælir æðru. — svona sagði hann,
og sofið get jeg ekki fyrir þessu.
Á jeg að krefjast að hann þýði mjer
orðin, sem að hrekja burtu svefn minn?
Á jeg að skora honum þegar hólm
og heimta að hann biðji um fyrirgefning?
Er eg ragur eins og veslings dýr,
og ekki nýtur þó jeg segði þetta?

(hugsar sig um)

„Mig grunar að þeir síðast sigri oss
þó sumum muni ekki líklegt þykja.
Þessi hugsun, þó hún sje ei ljós
hún þvingar mig og fylgir mjer í svefni;
um daga leynist hún í huga mjer
og hylur sig, en jeg er ekki hræddur,

Jeg veit fullvel að jeg eitt sinn skal
mót örlögum ganga". Þetta er engin hræðsla.
Nei, jeg hef ekkert unnið til þess nú
að jeg væri nefndur ragur hjeri.
Þú hefur vinur gjört mjer geysið rangt,
jeg get ei þolað slíka hluti lengur.

EIRÍKUR:

(upp úr svefninum)

— — Jeg næ þjer ekki — —

FJÖGRAMAKI:

Þey, þey hann talar uppúr svefninum.

EIRÍKUR:

Bíddu — —!

FJÖGRAMAKI:

Sofðu rótt; láttu ekki vonda drauma trufla svefn þinn, sofðu sem jeg ann þjer þess.

EIRÍKUR:

— — Hún bíður -- — —.

FJÖGRAMAKI:

Hann dreymir móður sína, þegar hann talar svo innilega og er svo blíðmáll. Bezt er hann njóti drauma sinna ef svo er.

EIRÍKUR;

Oh! — Guðmundur — burt! á burt! —

FJÖGRAMAKI:

Nú dreymir hann Guðmund í Kalmannstungu.

EIRÍKUR:

Burt Guðmundur — — jeg skal hitta þig —

(berst um með hendinni)

FJÖGRAMAKI:

Nú berst hann við Guðmund og skal jeg víst ekki vekja hann.

EIRÍKUR:

Oh — — Guðmundur sloppinn.

FJÖGRAMAKI:

Guðmundur sleppur frá oss í vöku og svefni þrælmennið halta. — Þey! þey!

EIRÍKUR:

Guðrún — - . hyldjúp gjá á milli okkar — og endalaus.

FJÖGRAMAKI:

Þessar stunur koma frá hjartanu skyldi jeg nú ekki eiga að vekja hann? — hann talar meira.

EIRIKUR:

Nú ætla jeg að stökkva, — vertu ekki fyrir.

FJÖGRAMAKI:

Þetta skal jeg reyna að muna, þegar hann vaknar og segja honum það.

(**Svipur móður Eiríks** kemur og grúfist niður að honum, hún er í hvítum hjúp.

EIRÍKUR:

Þú komin móðir mín! — jeg veit þú ert dáin!

FJÖGRAMAKI:

Hann dreymir móður sína, — en hjer er ískalt!

EIRÍKUR:

— — Vöknuð upp aptur — — — —?

FJÖGRAMAKI:

Vöknuð upp aptur? — — það segir hún.

EIRÍKUR:

Móðir mín — — Móðir mín! lofaðu mjer yfir gjána til hennar. — — — Móðir mín! —

FJÖGRAMAKI;

Talar nokkur annar? þey! þey!

EIRÍKUR:

Seinna? seinna, — — allir Hellismenn hafa farið yfir. — — — Slepptu mjer nú.

FJÖGRAMAKI:

Nú eru draummyndirnar farnar að blandast saman og að verða óljósari. — Hann hættir bráðum að dreyma.

EIRÍKUR:

Móðir mín — — Átti jeg þá að verða einn eptir? — —

(Svipurinn hverfur)

FJÖGRAMAKI:

Hann andvarpar þungt, skyldi jeg nú eiga að vekja hann (leggst niður að honum) Nú andar hann rólega, hann er hætt að dreyma. (lágt) Sofðu rótt! (Leggst niður og sofnar)

### 3. Leiksvið.

(Herbergi í Kalmannstungu, með kaþólskum líkneskjum í framsýn.

(**Guðmundur** og **Einar** koma inn)

GUÐMUNDUR:

Settu ljósið á borðið! Það er dimmt í nótt! farðu hægt svo enginn vakni! Það er kallt í nótt! Viltu ekki vín?

EINAR:

(horfir á hann).

Nei, því nú fer jeg strax að sofa.

(Setur af sjer ljósið).

GUÐMUNDUR:

Þú hefur riðið langt; þú ert þreyttur orðinn; sæng mín stendur þjer til boða; jeg er andvaka. Draumnótt! haustnótt!

EINAR:

Hefur nokkuð illt borið að? Þú hugsar ekki um leið og þú talar.

GUÐMUNDUR:

(eins og hann vakni af svefni)

Ekki hið minnsta, Einar! en þú ert stirður af ferðinni, viltu ekki setja þig? Við meigum, hvað sem það kostar, til að drepa Þiðrik.

EINAR:

Því hann veit allt; þreyttur er jeg ekki; jeg vildi heim í nótt, en þú sagðist þurfa að finna mig.

GUÐMUNDUR:

Jeg þarf þín; jeg þarf að senda mann, því sjálfur er jeg ólaginn til ferða. En í þessari

ferð verður þú að vera hygginn og mjúkyrtur.

EINAR:

Og hvert er ferðinni heitið?

GUÐMUNDUR:

Niður í Reykholtsdal og Borgarfjörð. Þú skalt spyrja menn þar, hverrar liðveizlu okkur sje von móti Hellismönnum.

EINAR:

En þeir reka allir fé sitt á aðra afrjett

GUÐMUNDUR:

Það veit jeg vel, og þessvegna er mikið undir sendimanninum komið. Þú skallt gera skaða okkar meiri í augum þeirra, armóð manna grátlegri, Hellismenn svartari og verri, tilraunir okkar hetjulegri og bænir okkar innilegri fyrir þeim.

EINAR:

Það skal jeg allt gjöra.

GUÐMUNDUR:

Og vertu hjer í Kalmannstungu um miðaptan á morgun. Ef hestar þínir eru þreyttir þá taktu mína. Ennþá hef jeg ekki sagt þjer allt. Taktu tvö þau verstu þrælmenni, sem menn geta bent þjer á og færðu mjer; þeirra þjónustu þyrfti jeg nú mjög, og þeim skal verða vel launað.

EINAR:

Það mun jeg einnig gjöra, láttu þá sitja um Þiðrik, því jeg hef aldrei lofað að ganga undir högg Hellismanna.

GUÐMUNDUR:

Það veit jeg Einar og ekki mun jeg gleyma samningum mínum.

EINAR:

Enn getur þú ráðið giptingu systur þinnar?

GUÐMUNDUR:

Jeg ræð öllu, því faðir minn er svo veikur. Ef jeg segi honum að jeg vilji eitthvað, þá gefur hann jáyrði sitt, án þess að hugsa sig um, því hann veit að jeg er enginn ráðleysingi, og segi hann nei, þá gerir hann það í ráðleysu. Jeg hef lögbókina með mjer.

EINAR:

Jeg trúi þjer.

GUÐMUNDUR:

Þar gjörir þú vel í: en nú er ekki til setunnar boðið.

EINAR:

Nei! farðu vel! jeg fer í þessa ferð.

GUÐMUNDUR:

Farðu vel!

(Einar fer)

GUÐMUNDUR:

(einn)

Undarleg tilviljun! Allt hef jeg gert sem unnt er til að bera ægishjálm yfir sveit þessa, gefið upp vonirnar um eigin hamingju; og svo kemur drengur, drengstauli, sem jeg ætla að

hafa að skotspæni af því hann er röskur, og tekur allt frá mjer. — Nú segja menn: »Gunnar berst vel«, "Gunnar gengur betur fram en aðrir", en mín er ekki viðgetið. — Jeg get ekki þolað það! Hellismenn sluppu eins þó hann væri. Hvað gerði hann? ekki meira en jeg. — (Þögn) þetta var vond hugsun. — Tímarnir eru vondir. Skyldi jeg eiga að biðja? (lítur á líkneskin) Nei, jeg get það ekki fyrir Gunnari. Jeg get það ekki fyrr en Gunnar er dauður.— Hann er ofurhugi og framgjarn mjög. — Hellismenn skulu drepa Gunnar! (Tekur um enni sjer) Einar fær Sigríðar systur minnar svo jeg svíki hann ekki; allt verð eg að gefa nema sjálfan mig.

SIGRÍÐUR;
(kemur inn).

Hvað ertu að gera hjer eptir miðja nótt, bróðir minn?

GUÐMUNDUR:

Jeg biðst fyrir, systir!

SIGRÍÐUR:

Það ertu ekki að gera, bróðir.

GUÐMUNDUR:

Þú trúir mjer ekki, er það vandi minn að ljúga? en jeg sje að þú ert syfjuð; því sefur þú ekki? og þú ert fölleit; farðu að sofa systir mín góð.

SIGRÍÐUR:

Jeg er ekki hið minnsta veik.

GUÐMUNDUR:

Dyldu mig einskis, systir!

SIGRÍÐUR:

Jeg hef nokkuð á hjarta; jeg veit að þú bannar mjer ekki ,að vera með þjer; við biðjum heitar, ef við gerum það bæði.

GUÐMUNDUR:

Nei, góða systir! eg truflast ef fleiri eru; lofaðu mjer að vera einum.

SIGRÍÐUR:

Þú ætlar ekki að biðjast fyrir; segðu heldur að þú viljir hafa mig á burt.

GUÐMUNDUR:

Hafa þig á burt Sigríður! nei, það er gleði mín að hafa þig hjá mjer.

SIGRÍÐUR:

Jeg veit meira en þú heldur.

GUÐMUNDUR:

Veiztu meira? Hvað veiztu?

SIGRÍÐUR:

Jeg hef heyrt allt; jeg var hjer fyrir utan, og þá heyrði jeg hvað þú sagðir.

GUÐMUNDUR:
(við sjálfan sig).

Skyldi hún hafa heyrt til mín? (hátt og brosandi). láttu mig heyra! hvað veiztu systir?

SIGRÍÐUR:

Að þú ert ekki eins góður maður og Jeg hef haldið þig vera. Þú vilt standa yfir höfuðssvörðum Hellismanna —

GUDMUNDUR:

Er það nú kallað ódæði systir, að reka af höndum sjer ræningja og reyna að yfirstíga þá, sem gera allt það illt, sem verða má. Sjerðu ekki, að ríkir menn eru nú öreigar? Bæirnir eru niðurníddir, fólkið huglaust og kúgað. Hver á að bæta úr þessu og hvernig á að gera það hjer, þar sem ekkert yfirvald er til?

SIGRÍÐUR:
(róleg).

Hefur þú nú talað út, bróðir?

GUÐMUNDUR:

Nei. Hefur þú ekki sjeð veslings mæðurnar ganga niðurlútar og sjeð hvernig börnin hafa grátið af hungri í kringum þær og beðið þær að gefa sjer að borða og þær hafa ekkert haft til? Er þetta ekki Hellismönnum að kenna? Getur þú, sem ert kona ekki fundið til þessa? Er það þá ódæði að reyna að fyrirbyggja þetta?

SIGRÍÐUR:

Það var ekki það! Sá, sem vill berjast, á að hafa valin vopn.

GUÐMUNDUR:

Þau hef jeg; það er gott stál í sverðinu

mínu og heitur eldurinn, sem maður getur kynt með hrísinu hjer í hraununum.

SIGRÍÐUR:

Þú ætlar að sækja óvini þína með eldi og stáli, (horfir á hann eins og hún vilji spyrja hann) og verja vini þína með því?

GUÐMUNDUR:

Þau verk þekki jeg eins vel og þú, systir.

SIGRÍÐUR:

Fyrir hvað þjónar Einar þjer dag og nótt, bróðir?

GUÐMUNDUR:

Hann? Til að fá það yndi, að sjá í elli sinni sveitir þessar blómgast, og fólkið lifa í friði fyrir ræningjum og óaldarmönnum.

SIGRÍÐUR:

Þú lýgur að mjer, bróðir, þá væri Einar ekki þræll, ef svo væri; honum viltu launa með stórmennsku, en Gunnari með gröfinni.

GUÐMUNDUR:
(með umhyggju).

Þú ert nábleik systir! þú hefur miklar ímyndanir og veizt ekki hvað þú talar; láttu mig styðja þig inn til þín.

SIGRÍÐUR:

Jeg veit hvað mjer líður, jeg er heilbrigðari en þú. — Jeg stóð fyrir utan og heyrði allt.

GUÐMUNDUR:

Það sagðir þú áðan.

SIGRÍÐUR:

Svíktu loforð þín við Einar. Jeg er engin skepna, og verð ekki gefin burt móti vilja sjálfrar mín. Og vaktu yfir lífi Gunnars, því annars kemur ógæfan yfir þig.

GUÐMUNDUR:
(dimmur í máli)

Yfir mig er nú öll sú ógæfa komin, sem komið getur, nema sú, að falla fyrir Hellismönnum. En því heldur þú barn að jeg ætli að láta drepa hann?

SIGRÍÐUR:

Jeg heyrði það. Gerðu það ekki, því annars kemur ógæfan yfir þig.

GUÐMUNDUR:

Því lætur þú svona? þjer hefur misheyrst þegar þú stóðst á hleri. Jeg sagði: „Hellismenn skyldu drepa Gunnar“, það væri sárt, en hann er svo djarfur.

SIGRÍÐUR:

Jeg hugsaði, að þú værir sá djarfasti af mönnum hjer í sveit. En jeg vil trúa, að þú hafir sagt þetta, þó jeg geti það ef til vill ekki, — en Einar, sem ekki er eins hugaður og jeg! — Jeg í hendurnar á því vesalmenni!

GUÐMUNDUR:

Þú mátt þakka mjer fyrir, að jeg geng þjer í föður stað og Einar er liðlegur maður.

SIGRÍÐUR:

Já, til að þjóna þeim, sem kunna að fara með hann. Ætlar þú að neyða mig?

GUÐMUNDUR:

Neyða þig? það er ekki vant að þurfa að neyða konur til að giptast þegar þær eru komnar yfir tvítugt; það er ekki gott fyrir ykkur að standa einar í ellinni.

SIGRÍÐUR:

Nei, hugsa þú ekki um að sjá fyrir mjer, ef þú vilt gjöra það á þennan hátt. Jeg vil heldur vera göngukona alla æfi mína, en að vera bundin við hann. Þennan aumingja, þennan huglausa og duglausa vesaling; viltu vita til þess, að þú hafir eyðilagt alla giptu mína, bróðir?

GUÐMUNDUR:
(brosandi).

Víst mætti hægra fara, Sigríður.

SIGRÍÐUR:

Jeg grátbæni þig, bróðir minn, við minningu hennar móður okkar, gerðu mig ekki ógæfusama.

GUÐMUNDUR:
(alvarlegur).

Það er orðið langt síðan að hún var hjá okkur, Sigríður.

SIGRÍÐUR:

Þess heilagri er minning hennar bróðir, minn,

GUÐMUNDUR:
(tekur um enni sjer).

Mjer finnst jeg muni ekki eptir neinu nema ógæfu og styrjöldum, sem mjer svíða of mjög til þess, að minning þeirra geti verið heilög fyrir mig.

SIGRÍÐUR:

Þú þekkir ógæfuna, bróðir minn, láttu hana þá ekki viljandi koma yfir mitt höfuð. Ó, manstu þegar við vorum börn, manstu ekki hvað okkur kom vel saman, þá þótti þjer vænt um mig, þó þjer þyki það ekki nú; þá hugsaði jeg heldur ekki, að þú mundir vilja leika mig svo grátt, því annars hefði jeg verið hrædd við þig.

GUÐMUNDUR:

Þú ætlar að telja mjer hughvarf.

SIGRÍÐUR:

Hughvarf? Jeg vildi jeg gæti talið þjer hughvarf. Bróðir minn, neyddu mig ekki til þess; ef unnt er að þú látir eptir mjer þá gerðu það nú. Bróðir minn, ef þjer hefur nokkurn tíma þótt vænt um mig, þá láttu ekki Einar verða manninn minn.

GUÐMUNDUR:

Láttu ekki svona, systir mín!

SIGRÍÐUR;

Þú lætur ekki að því, sem jeg bið þig. Gættu þess, að þú þurfir ekki að biðja mig neins Guð-

mundur; það getur verið að jeg verði ekki fljótari til þá, en þú ert nú. Gættu að því, að þú þurfir ekki minnar hjálpar við; hjálparhöndin verður þá kannske ómjúk og gættu að því, að þú þurfir ekki minnar meðaumkvunar við; systurbrjóstið verður kannske þá eins tilfinningarlaust og bróðurhjarta þitt er nú.

GUÐMUNDUR:

Það var það sem mig vantaði; ætlar þú einnig að vera á móti mjer?

SIGRÍÐUR:

(þegir).

GUÐMUNDUR:

Þú vilt koma mjer í hendur þess manns, sem jeg hef verið neyddur til að trúa, hef jeg unnið til þess, Sigríður?

SIGRÍÐUR:

(þegir).

GUÐMUNDUR:

Þú vilt ekki svara því systir! Vertu nú eins einlæg við mig, eins og þú vilt að jeg sje við þig og segðu mjer ástæðurnar. Því er þjer þetta svo á móti skapi?

SIGRÍÐUR:

En jeg á svo bágt með það bróðir, og það ekki sízt nú, þegar þú hefur viljað þröngva mjer til neyðarúrræða.

GUÐMUNDUR:

Þú getur haft leyndarmál, en jeg veit að þín leyndarmál þola öll að jeg þekki þau; þú ert góð stúlka systir! Segðu mjer þetta ef þú vilt sjálfri þjer vel.

SIGRÍÐUR:

Bróðir minn, neyddu mig ekki, því jeg elska annan — —

GUÐMUNDUR:

(þegir litla stund).

Er það betri maður en Einar?

SIGRÍÐUR:

Lofaðu mjer því að þvinga mig ekki. Taktu eptir því, jeg elska annan, jeg — — eins og þú — — — — Guðmundur! (tekur með báðum höndum um aðra hönd hans).

GUÐMUNDUR:

(með óróa).

Minntu mig ekki (tekur lausu hendinni um ennið) Eins og jeg; Hvenær hef jeg? — — (þögn) Sigríður, nei, þjer má jeg ekkert á móti gera, og jeg heiti þjer því við líkneskjur þessara helgu manna, að jeg skal aldrei þröngva þjer til neins, sem þjer er á móti skapi.

SIGRÍÐUR:

Nú trúi jeg þjer aptur bróðir.

GUÐMURDUR:

Gakktu nú til svefns, þú ert föl, mjer sýn-

ist þú vera veik! Góða nótt systir mín. (Þau kveðjast).

SIGRÍÐUR:

Góða nótt, bróðir. (hún fer).

---

# IV. Þáttur.

## 1. Leiksvið.

Í Surtshelli. Tunglsljós niður um rjáfrið. **Þiðrik** heldur vörð og er einn. **Valnastakkur** kemur að utan; hann er ekki í stakknum.

ÞIÐRIK:

Hver fer þar?

VALNASTAKKUR:

(þegir).

ÞIÐRIK:

Hver ertu? (Vill gæta framan í hann).

VALNASTAKKUR:

(snýst undan).

ÞIÐRIK:

Segðu til þín! Við Hellismenn látum ekki óþekkta menn læðast inn á okkur. (bregður sverði). Jeg drep þig í sömu sporum ef þú segir ekki til þín.

VALNASTAKKUR

(Byrgir með annari hendinni andlitið, með hinni

bregður hann sverði og haltrar um leið aptur á bak).

ÞIÐRIK:

Hann er haltur! annaðhvort illur andi eða Guðmundur. (leggur til hans. Valnastakkur slær sverðið úr höndum honum). Andskoti!

VALNASTAKKUR

(hlær).

ÞIÐRIK:

Foringi, þú sagðir ekki til þín. Jeg hugsaði þú værir Guðmundur í Kalmanstungu, þú gekkst haltur.

VALNASTAKKUR:

Sleppum því Þiðrik, mjer þótti svo' gaman að reyna trúmennsku þína á verði. Þú ert loksins kominn, hvað hefur þú frjett?

ÞIÐRIK:

(tekur upp sverð sitt).

Jeg hef frjett það, að eptir fáa daga, á enginn Hellismanna að geta lypt sverði þessu.

VALNASTAKKUR:

Þá verður sumum þeirra farið aptur með afl.

ÞIÐRIK:

Það á að reyna betur í okkur þolrifin.

VALNASTAKKUR:

Svo! Þeir hafa ekki fengið nóg á sunnudaginn?

ÞIÐRIK:

Þeir fá aldrei nóg, fyrr en við höfum kreyst hvern blóðdropa úr Guðmundi í Kalmanstungu.

VALNASTAKKUR:

Vilja þeir enn láta vekja sjer blóðs?

ÞIÐRIK:

Þeir ætla sjer að þinga í Kalmanstungu í nótt og þar á að tala um, hvenær eigi að smala fjöllin; þeir ætla að verða fyrri til en vjer.

VALNASTAKKUR:

Hetjulegur dauði, að deyja úr hungri!

ÞIÐRIK:

Jeg var búinn eins og smali og talaði við Einar, hann hundinn Guðmundar, hann átti að fara til allra og segja þeim að koma til Kalmanstungu; þar ætla þeir að koma saman; þeir ætla nú að smala fjöllin á undan okkur, en þeir verða ekki tilbúnir fyrr en eptir þrjá daga. Þetta á að gjöra, svo að vjer sjeum neyddir til að hlaupa til rána niður í byggðina og gefum hvert færið á okkur á fætur öðru. Þetta er sem allt annað komið undan rifjunum í Kalmanstungu.

VALNASTAKKUR:

Legðu nú ráð Þiðrik; kænsku þína met jeg mikils!

ÞIÐRIK:

Ráð mín eru fá, en það mun jeg til leggja

að vjer förum allir í nótt til Kalmanstungu og tökum hús á Guðmundi þegar fundi þessum er slitið og drepum hann.

VALNASTAKKUR;

Þú ert grimmur! Vilt taka varnarlausa menn og drepa, það er ekki drengilegt.

ÞIÐRIK:

Jeg vildi heldur að þú færir að ráðum mínum, en lofaðir kænsku mína. Guðmundur skal fá að verja sig og einungis einn af oss skal berjast við hann með jöfnum vopnum. Fjögramaki mundi gjöra það brosandi, hann hefur boðist til þess fyrr.

VALNASTAKKUR:

Morðráð og banaráð líka mjer ekki.

ÞIÐRIK:

En þetta hefði hver af Ásbirningum gert.

VAKNASTAKKUR:

Vjer erum engir Asbirningar!—gefðu annað ráð en þetta.

ÞIÐRIK:

Að ónýta fundinn með því að ráðast á þá og tvístra þeim; þeir verða að líkindum nálega 60, við erum 18.

VALNASTAKKUR:

Þetta ráð mundi Fjögramaki velja, þó það sje ekki betra hinu fyrra.

ÞIÐRIK:

Þú þiggur ekki ráð mín. — Hið þriðja er að vjer verðum fyrri til en þeir og förum af stað í kvöld að smala fjöllin; við liggjum í áfangastað okkar Vopnalág; loptið er svo hreint þar í runnunum.

VALNASTAKKUR:

Þetta ráð mun eg upptaka. Vjer förum úr hellinum í kvöld, liggjum í Vopnalág í nótt; eptir þrjá daga komum vjer aptur. Viltu segja Hellismönnum þetta frá mjer?

ÞIÐRIK:

Og bæta því við, að þegar vjer komum aptur, þá muni farið til næsta bæjar og tekin hús á Guðmundi í Kalmanstungu.

VALNASTAKKUR:

Nei.

ÞIÐRIK:

Svo sýnist sem þú hræðist bæði blóð og tár.

VALNASTAKKUR:

Þetta er ónauðsynlegt blóð. Hvenær hef jeg hlífst við þegar þörf var á?

ÞIÐRIK:

Gættu þín meðan Guðmundur lifir.

(fer inn).

VALNASTAKKUR:

Guðmundur er ekki fæddur til að bíta sundur stálið.

(fer).

GUÐMUNDUR:

(kemur fram).

Vertu óhræddur! vertu óhultur! — Og Eiríkur kemur til Kalmanstungu í kvöld, — hann leggur höfuð sitt milli tanna minna. Vera má að jeg sje ekki fæddur til að bíta sundur stálið, en hjer er eins mikið undir að brjóta það.

(fer).

(**Fjögramaki** og **Eiríkur** koma inn).

FJÖGRAMAKI:

Og þú ferð samt þó sextíu manna verði í kringum Kalmanstungu í nótt?

EIRÍKUR:

Jeg færi þó þar væru fyrir sex hundruð.

FJÖGRAMAKI:

Að vaka til að vinna stórvirki, að vaka nóttina við drykkju og berjast á daginn, það væri annað, en að vaka til að horfa kvennfólk; — það skil jeg ekki.

EIRÍKUR:

Það skilur þú ekki; þú elskar sverðið þitt eins og part af sjálfum þjer; annað hefur þjer aldrei þótt mjög vænt um.

FJÖGRAMAKI:

Jú, mjer þykir einmitt svo vænt um margt annað; mjer þykir vænt um röskva menn, góða hesta, þeir lypta manni frá jörðunni og eru sina-

sterkir, en ekki um kvennfólk, því það er úr tárum og andvörpum.

EIRÍKUR:

Þú hefur aldrei fundið neina, sem var við þitt hæfi; náttúrlega einhverja sem ekki letti þig stórræðanna og steypti yfir þig blóðlifrum, þegar hún gæti ekki komið þjer af stað öðruvísi.

FJÖGRAMAKI:

En þær eru nú ekki lengur til; væri jeg svo vel giptur þá vildi jeg gjarnan vera bóndi hjer í Hvítársíðu, og láta hana steypa blóðlifrum yfir mig til að eggja mig á móti Hellismönnum. Ef það væri ein svo skörugleg kona til í öllu því byggðarlagi, þá værum vjer annaðhvort stokknir hjeðan eða dauðir. — En Eiríkur —

EIRÍKUR:

Hvað?

FJÖGRAMAKI:

Jeg ætlaði að tala um annað.

EIRÍKUR:

Og það var?

FJÖGRAMAKI:

Þig dreymdi eitthvað í nótt; hvað var það?

EIRÍKUR:

Jeg man það ekki. Hvernig veiztu að mig dreymdi?

FJÖGRAMAKI:

Þú talaðir upp úr svefni og stundir, jeg vildi ekki vekja þig.

EIRÍKUR:

(lítur niður fyrir sig).

Jú, nú man jeg það og jeg hugsaði um það í morgun, sá draumur er mjög þungur í huga mínum.

FJÖGRAMAKI:

Það var eitthvað um Guðmund, eitthvað um okkur, nokkuð um Guðrúnu og nokkuð um móður þína.

EIRÍKUR:

Það var undarlegt: mjer þótti jeg vera á gangi hjer í hrauninu og þá sje jeg hvar Guðrún gengur á undan mjer, jeg gat ekki náð henni, svo kallaði jeg og hún leit loksins aptur og beið mín. En þegar jeg var kominn rjett til hennar og vildi rjetta henni hendina, þá er Guðmundur kominn á milli okkar, það var eins og ský sæti á enni hans og hann var mjög þungbúinn. Jeg brá sverði og hjó til hans en hann hvarf undan högginu, það lenti á hrauninu og hraunið klofnaði að endilöngu undan því. Guðrún varð öðrum megin og jeg hinum-megin. Jeg þóttist ekki geta komist yfir gjána, hún var hyldjúp og hvergi sá fyrir endana, svo jeg settist niður á bakkann og mjer þótti eins

og hvíslað væri allt í kringum mig: »Aldrei! aldrei!« en í þessu komuð þjer allir, jeg taldi yður, þjer stukkuð allir yfir gjána, hver eptir annan. Jeg hugsaði nú að jeg gæti komist yfir gjána, fyrst þjer gátuð það allir. Jeg ætlaði að stökkva á eptir, en í því kom móðir mín, og hjelt mjer aptur; jeg bað hana, en fjekk ekki að fara, — svo man jeg ekki meira.

FJÖGRAMAKI:

Farðu ekki til Kalmanstungu í kvöld.

EIRÍKUR:

Því þá ekki?

FJÖGRAMAKI:

Ja — jeg get ekki sagt þjer það, — þessi draumur er undarlegur.

EIRÍKUR:

Ekki er mark að draumum; trúir þú á þá?

FJÖGRAMAKI:

Stundum! jeg er hræddur við þessar undarlegu myndir, sem augun sjá sofandi.

EIRÍKUR:

Og hvernig ræður þú draum þennan?

FJÖGRAMAKI:

Það get jeg sagt þjer; jeg ræð drauminn svo, að vjer komumst allir í hættu af Guðmundar völdum, en vjer stökkvum yfir gjána, og komumst allir heilir á hófi úr henni aptur, nema þú. Dauður maður heldur þjer aptur, það þýð-

ir að þú verður sá eini, sem ekki kemst undan; þú gistir Óðinn, vjer munum allir lifa.

EIRÍKUR:

Nei, því er verr, landið hinummegin sprungunnar þýðir annað líf, þangað farið þjer allir, en jeg kemst ekki þó jeg vilji og missi sjónar á Guðmundi, fjandmanni vorum.

FJÖGRAMAKI:

Og það er sem vjer mundum sízt vilja. Farðu ekki til Kalmanstungu, menn geta orðið þín varir og þá er ekki langt frá að draumurinn rætist.

EIRÍKUR:

Þjer munuð allir gista að Óðins, jeg mun einn lifa; þú ræður ekki drauminn rjett.

FJÖGRAMAKI:

Þá gerir hvorugur okkar það. Farðu ekki til Kalmanstungu í kvöld!

EIRÍKUR:

Aldrei mun jeg láta drauma hræða mig.

FJÖGRAMAKI:

Farðu ekki; ef þú kemur á vald Guðmundar máttu vita hvers þú átt von.

EIRÍKUR:

Meðan jeg hef hendur mínar og nokkurt vopn til að verja mig með, mun jeg aldrei á hans vald koma.

FJÖGRAMAKI:

Þú munt ekki samur aptur koma, ef svo vel verður að þú komir aptur, og vil jeg fara með þjer.

EIRÍKUR:

Jeg mun fara einn.

FJÖGRAMAKI:

Þá viltu ekki mína fylgd þyggja.

EIRÍKUR:

Það get jeg ekki; jeg fer, og fer einn.

FJÖGRAMAKI:

Farðu vel! hjeðan fer Eiríkur, og hingað kemur enginn aptur.

EIRÍKUR:

Farðu vel! hvað hefur gjört þig svo hræddan? —

FJÖGRAMAKI:

Illir draumar þínir og ákafinn að slíta þig burt; nú býð eg þjer ekki fylgd mína framar. Það er illt að vera bundinn á höndum og fótum, en enn verra að vera fjötraður á hjartanu!

(þeir fara sinn í hvora átt).

## 2. Leiksvið.

(Sama leiksvið og 2. leiksvið í I. þætti. **Guðmundur** situr við kirkjugarðinn og styður hönd undir kinn; hann er hugsi.

GUÐMUNDUR:

Jeg hef illa útbúna og hrædda menn. Sam-

takaleysið leggur allt í auðn; hjer þarf harðstjórn, en jeg hef ekkert vald. Nú þarf að fara að Hellismönnum í nótt, en bændur þora ekki; hvað á að gera til að setja stálið í þessa menn? Þeir yrðu hugaðri ef jeg gerði þá reiða við Hellismenn (Hugsar). Eiríkur kemur hjer í kvöld. — Er nokkur hjer í sveitinni, sem eins mörgum þykir vænt um, eins og fóstursystir mín. Hjer er enginn eins vinsæll og þetta barn. Hún verður að deyja fyrir fólkið. Með því að gefa út eitt líf má kannske frelsa lán og lukku margra manna. „Moriatur unus pro populo".

(Þögn. Á meðan gengur hann óhaltur um gólf. Stjörnuhrap). Stjörnuhrap! — — — Hellismönnum skal verða kennt um morðið, svo menn mínir æsist móti þeim eins og grimmir hundar. — Heilaga móðir! þessi þreyta stjarnan mín er hröpuð.

(fleygir sjer máttvana á kirkjugarðinn. Þögn).

(**Einar** kemur inn. **Guðmundur** rís upp sem nýr maður).

GUÐMUNDUR:

Hefur þú fengið þessa 2 menn? fáum við hjálp neðanað?

EINAR:

Við fáum enga hjálp.

GUÐMUNDUR:

Ekki mun eg biðja Borgfirðinga optar.

EINAR:

Jeg hef fengið þessa 2 menn og munu þeir koma hingað í kvöld; þeir eru báðir hraustir og hugaðir og tala fátt, jeg hjet þeim fje því, sem þú sagðir mjer að lofa þeim.

GUÐMUNDUR:

Og þeir koma? Þessu erindi hefur þú víst vel lokið.

EINAR:

Hvað ætlar þú fyrir með menn þessa? Jeg gat ekki sagt þeim það.

GUÐMUNDUR:

Láttu það ekki slíta vinfengi okkar, að jeg segi þjer það ekki, þú hefur ekki annað á hendi í þessu sem öðru en að þegja. Mundu það, sem jeg hef heitið þjer. Í nótt ráðumst við að líkindum á Hellismenn, því að þeir sofa allir í Vopnalág eins og siður þeirra er, þegar þeir fara að smala fjenu. Þeir ætla að verða fyrri til en við.

EINAR:

Ætla Hellismenn að verða fyrri til að ganga afrjettina?

GUÐMUNDUR:

Þú hefur sagt Þiðrik alla okkar ráðagerð,

EINAR:

Hef jeg sagt Þiðrik? Trúir þú mjer ekki betur en þetta?

GUÐMUNDUR:

Hefur þú ekki talað við neinn ókunnugan mann í dag?

EINAR:

Jeg tek alla heilaga til vitnis, engan nema nýja smalann á Gilsbakka.

GUÐMUNDUR:

Jeg tek alla heilaga til vitnis, að sá sem þú kallar nýja smalann á Gilsbakka var enginn annar en Þiðrik.

EINAR:

Hvað er þetta? hvernig veiztu þetta?

GUÐMUNDUR:

Jeg hef sjálfur verið í Surtshelli.

EINAR:

Hefur þú hætt þjer inn í Surtshelli?

GUDMUNDUR:

Undrastu það svo mjög? — — Segðu nú öllum að koma vopnuðum, — nema Gunnar má ekki vita af þessari för. Og hver sem hefur svarið að fylgja mjer, fær þunga refsingu eptir áliti beztu manna, ef hann kemur ekki.

EINAR:

Jeg skal láta þá alla vera komna um miðnætti. — Jeg skil ekki í Þiðrik; mjer var ómögulegt að þekkja hann.

GUÐMUNDUR:

Gunnari getum við ekki trúað, hann hefur

enga eiða svarið; mundu það.

EINAR:

Því mun jeg ekki gleyma. Jeg skil ekki í Þiðrik!

GUÐMUNDUR:

Þú hefur engan tíma til að hugsa um hann nú. Farðu vel!

EINAR:

Farðu vel!

(þeir fara)

(Eiríkur og Guðrún mætast)

GUÐRUN:

Hvílík ofdirfska! jeg held jeg hefði orðið fegnari, ef þú hefðir ekki komið.

EIRÍKUR:

Því það?

GUÐRÚN:

Jeg hef kvalist í allt kvöld; Guðmundur er svo ískyggilegur, að hann hefur aldrei verið eins; jeg hef verið hrædd við hann, en jeg er fegin að sjá þig, þó jeg geti varla sagt þjer hvað jeg má þola. Hann fóstri minn er alltaf geðveikur og hefur opt skipað mjer að eiga son sinn, en jeg get ekki hlýtt honum af því jeg elska þig. —

EIRÍKUR:

Og þetta er allt mjer að kenna! Getur þú fyrirgefið mjer að jeg hef tekið allan frið þinn og rósemi frá þjer?

GUÐRÚN:

Ó, það er ekki þjer að kenna; ef jeg hefði aldrei fundið til með þjer, þá væri ekki sökin mín. En jeg sá þig og allt annað var burtu; jeg hugsaði um þig þó jeg vildi það ekki, jeg grjet yfir því að þú skyldir vera með þessum mönnum, þó jeg vildi ekki; mig dreymdi að við gengjum saman í tunglsljósi á vetrarkvöldi og mjer þótti þú krjúpa fyrir framan mig og jeg leið máttlaus af sælu í faðminn á þjer; þú varst svo sterkur og jeg svo veikburða; þetta dreymdi mig hvað eptir annað, þó jeg vildi það ekki; jeg var sigruð á móti vilja mínum og gekk með þrá í hjarta.

EIRÍKUR:

Þú líður allt mín vegna; fyrirgefðu mjer vegna þess að jeg þoli margt þín vegna, þó það sje ekki þjer að kenna; liggi vel á mjer, þá kemur þú mjer í hug og jeg verð hryggur; jeg finn þá til þess, að jeg get ekki verið án þín og einnig til þess að jeg verð allt af að vera það.

GUÐRÚN:

Að neyðast til að gera það, sem jeg ekki vil og fá ekki það, sem jeg vil, það hefur hingað til fylgt mjer, og nú loksins get jeg hugsað til að fella mig við það.

EIRÍKUR:

Jeg er ekki verður að vera nærri þjer, svo mikið bil er milli okkar.

GUÐRÚN:

Bil á milli okkar?

EIRÍKUR:

Óendanlegt, Guðrún þú ert svo saklaus, að þú getur ekki hugsað þjer hvílík eilífð er á milli okkar, en jeg sje það svo vel, Ef Fjögramaki væri ekki, þá væri jeg ekki til á jörðunni.

GUÐRÚN:

Örvæntu ekki! Ef jeg fæ mína innilegu ósk, þá verð jeg komin á undan þjer, og jeg skal brosa móti þjer þegar þú kemur, þá líður okkur vel! — Sú von heldur mjer uppi.

EIRÍKUR:

Okkar vegir liggja aldrei saman á jörðinni; í sporum okkar fjallamannanna hefur aldrei gipta gróið.

GUÐRÚN:

Þarftu alltaf að vera fjallamaður?

EIRÍKUR

Þetta haust og næsta vetur að líkindum. Jeg get ekki yfirgefið þá fjelaga mína.

GUÐRÚN:

En svo eptir það?

EIRÍKUR:

Jeg gæti kannske samið við foringja okk-

ar um lauşn frá Hellismönnum, en naumast nú.

GUÐRÚN:

Og hvert flýjum við þá?

EIRÍKUR:

Þú mátt ekki vona þess að okkar vegir liggi saman hjer á landi. Enn get jeg ekkert sagt með vissu.

(Vopnabrak heyrist fyrir utan).

GUÐRÚN:

Vopnabrak! Guð hjálpi mjer! setið um þig. Flýttu þjer hjeðan, Guðmundur hefur vitað að þú mundir koma og hefur safnað mönnum til að drepa þig. Ó, farðu á brott! flýttu þjer! flýttu þjer!

EIRÍKUR:

Guðmundur? komi hann, þann mann hef jeg aldrei hræðst.

GUÐRÚN:

Ó farðu! hann er ekki einn, það þorir hann ekki.

EIRÍKUR:

Því ertu svo hrædd? Á jeg að fara nú strax?

(Vopnabrak heyrist fyrir utan).

GUÐRÚN:

Ó farðu! Eiríkur viltu að jeg deyji af hræðslu? Viltu láta myrða þig fyrir augunum á mjer? — Jeg get ekki beðið þig betur.

EIRÍKUR:

Jeg gjöri það fyrir þig, en nú er jeg ekki hræddur, enda kem jeg aptur eptir litla stund.

(kveðjast hann fer).

(**Guðmundur** kemur inn. **Guðrún** vill fara, en hann kemur í veg fyrir hana).

GUÐMUNDUR:

Talaðu við mig, jeg sver við drengskap minn, að jeg ætla að segja þjer nokkuð, sem þjer þykir vænt um.

GUÐRÚN:

Hvenær hefur þú sagt nokkuð, sem mjer þótti vænt um?

GUÐMUNDUR:

Það geri jeg nú; þú elskar Eirík, er ekki svo?

GUÐRÚN:

(við sjálfa sig)

Hvað er þetta? Guð hjálpi mjer!

GUÐMUNDUR:

Jeg veit allt, þú elskar Eirík og hann þig á móti: og til sannindamerkis get jeg sagt þjer það, að þið fundust hjer við kirkjugarðinn núna.

GUÐRÚN:

Þú ert djöfull, en ekki maður, þú hefur hlerað, jeg veit að þú hefur farið út á eptir mjer þegar jeg fór. Er það samboðið manni að standa á hleri, er þjer ómögulegt að skammast þín við að heyra aðra bera það uppá þig? Og

þú hugsar að jeg muni nokkurn tíma gera svo lítið úr mjer að gefa þjer hönd mína, lítilfjörlegi maður!

GUÐMUNDUR:
(hristir höfuðið)

Þú þekkir mig ekki enn.

GUÐRÚN:

O, þig þekki jeg rjett, því jeg get ekki hugsað mjer eins mikinn níðing eins og þú ert, þótt allir vondir eiginlegleikar væru sameinaðir í dýri, þá væri það naumast verra og tilfinningalausara en þú.

GUÐMUNDUR:
(brosandi).

Víst gætir þú farið hægar fóstursystir, meðan þú veist ekki hvað eg ætla að gjöra fyrir þig.

GUÐRÚN:

Jú, jeg veit hvað þú ætlar að gjöra fyrir mig; þú vilt þrönga munaðarlausri stúlku til að gefa sig á vald þess, sem hún hatar. En það skal verða þjer til óhamingju. Hjer eru nunnuklaustur til; varaðu þig að jeg verði ekki komin í eitthvert þeirra, áður en þú veizt af. Þau skila aldrei aptur því, sem þau hafa fengið og þú nærð mjer ekki þaðan.

GUÐMUNDUR:
(alvarlegur).

Þú ert mjer svo kær, að jeg mundi ekki

reyna til, að taka þig þaðan, sem þú vildir vera.

GUÐRÚN:

Jeg hef ekki sagt nóg; þú hetur varla verið á ferli í nótt til einskis; jeg heyrði vopnabrakið, þú vilt víst drepa þann sem fór hjeðan en hann er hraustur, þess vegna þorir þú ekki sjálfur, ragmenni!

GUÐMUNDUR:

Jeg veit af ástum ykkar Eiríks, því Eiríkur hefur sagt mjer af því.

GUÐRÚN:

Eiríkur sagt þjer af því? — lygari!

GUÐMUNDUR:

Í Surtshelli sórumst við Eiríkur í fóstbræðralag. Við gerðum það á laun, vegna bænda og Hellismanna. Ef nokkur hefði vitað það hefði það kostað mig traust bænda, en Hellismenn hefðu drepið hann, — Jeg vil drepa alla Hellismenn nema Eirík, en hann vill ekki vera í ráðum með mjer, því hann er svo eðallyndur.

GUÐRÚN:

Lofa þú hann ekki, það er sama og last.

GUÐMUNDUR:

Síðan fjekk Eiríkur ást á þjer og komst að því, að það höfðu margir hjer i sveitinni augastað á þjer; okkur kom ásamt um að jeg skyldi láta svo sem jeg ætlaði mjer þig. Þjer þykir

líklega skrítið að Eiríkur skuli ekki hafa sagt þjer þetta og þess vegna trúir þú því að líkindum ekki nú.

GUÐRÚN:

(reið)

Þetta hefur enginn sagt mjer fyrr en þú.

GUÐMUNDUR:

(rólegur).

Þú trúir því ekki?

GUÐRÚN:

Jeg hef ekki ástæðu til þess.

GUÐMUNDUR:

Trúðu mjer í þetta eina sinn, þín og Eiríks vegna, því gæfa ykkar liggur við.

GUÐRÚN:

Þá er hún í hættu, ef hún er í þínum höndum.

GUÐMUNDUR:

Þú heldur það. Nei, ekki fyrst það er þín gæfa. Þú veizt að mjer hefur þótt vænt um þig; þú mátt ekki neita mjer um að hlusta á mig fáein augnablik, því jeg mun ekki biðja þig optar.

GUÐRÚN:

Segðu það sem þú vilt.

GUÐMUMDUR:

Eiríkur hefur opt hugsað um hvernig þið gætuð fengið að vera saman. Í Surtshelli get-

ð þið ekki verið, því ræningjabæli. Eina ráð-ið er að þið flýjið af landi burt. Niðri á Hvít-árósi liggur skip með því hef jeg tekið ykkur far. Eiríkur veit það ekki enn.

GUÐRÚN:

Og — fer það bráðum?

GUÐMUNDUR:

Aðra nótt; og þið ættuð að fara með því.

GUÐRÚN:

Því gastu ekki komið okkur burt fyrr?

GUÐMUNDUR:

Það hefði verið of þung sorg fyrir móður mína, en nú er hún komin þangað. (bendir á kirkjugarðinn) Nú hef jeg útvegað tvo menn dularklædda ykkur til fylgdar. þú verður að búa þig í karlmannsföt, með hettu og hökustall fyrir andliti; við verðum að vera tilbúin þegar Eiríkur kemur hingað aptur.

GUÐRÚN:

(tekur hönd hans)

Þú ert bróðir minn, þó jeg hafi engan átt; jeg hugsaði ekki að þú værir svona.

GUÐMUNDUR:

Þú hefur hlustað á mig eins og jeg bað þig um, nú bið jeg þig einkis framar. — Ferðu eða ferðu ekki? Gæfa Eiríks liggur við.

GUÐRÚN:

Jeg kveð allt sem mjer þykir vænt um hjer, jeg yfirgef allt og fer.

(Sleppir hönd hans).

GUÐMUNDUR:

Farðu nú og klæddu þig fljótt, því vera má að við missum annars af Eiríki.

GUÐRÚN:

Missum af honum?

GUÐMUNDUR:

Hellismenn þurfa hans með, því þeir liggja allir í Vopnalág í nótt og ætla til fjalla, og ef þeir ná honum áður en við, þá höfum við misst hans.

GUÐRÚN:

Það er svo! (hugsar) Heldur þú ekki að hann faðir þinn og hún Sigríður systir okkar sakni mín þegar jeg er farin.

GUÐMUNDUR:

Nei, hann faðir minn er svo sinnisveikur, að hann veit ekki hvað gjörist í kringum hann, en Sigríði systur minni segi jeg allt saman þegar þú ert farin. Svo látið þið okkur systkynin vita hvernig ykkur líður úti í heiminum. (Guðrún fer; hann styðst á kirkjugarðinn og hugsar). Skal jeg eiga að láta sigrast af þessum barnatilfinningum og gera þetta ekki? Nei, Hellismenn get jeg aldrei sigrað, fyrst Eiríkur og

Valnastakkur halda þeim frá öllum manndrápum, nema jeg gefi þetta líf út. (reisir sig upp) Moriatur unus pro populo! — Úr því jeg fæ ekki tækifæri, þá verð jeg að skapa mjer tækifæri og vissara meðal en þetta get jeg ekki hugsað mjer. Þetta líf er ekki nema leikur; sá sem leikur bezt hann vinnur. Allt eru þetta drengir, allt eru það börn og í þvílíkum leik er enginnn annars bróðir; jú, jeg er minn bróðir, jeg, finn það, jeg veit það, Því jeg vil gjöra svo mikið fyrir sjálfan mig. Jeg get ekki annað, jeg verð að riðja hjer braut fyrir þessa sveit, en þeir, sem með mjer ætla að vera þora ekki, og vilja ekki dansa eptir söng mínum; en jeg neyði þá til þess með þessu.

(2 **Síðhettir,** menn með hettur og hökustalla fyrir andliti koma inn).

GUÐMUNDUR:

(með nokkuð breyttum róm).

Þið eruð komnir, Síðhettirnir.

1. SÍÐHÖTTUR:

Viðerum komnir, hvað eigum við að gjöra?

GUÐMUNDUR:

Þorið þið að gjöra nokkurn hlut?

2. SÍÐHÖTTUR:

Fáum við fje?

GUÐMUNDUR:

Jeg þekki menn svo, að jeg veit að þeir

vinna ekki borgunarlaust. Maðurinn sem sótti ykkur lofaði ykkur launum, og jeg stend við öll hans loforð, Eruð þið ekki ánægðir með það?

1. SÍÐHÖTTUR:

En það er eptir því sem gera skal.

GUÐMUNDUR:

Það er ekki mikið verk, fyrst að ganga dálítið með mjer og öðrum manni til.

2. SÍÐHÖTTUR:

En nokkrar merkur silfurs eru fyrir öllu, þó samvizka mín kosti ekki mikið.

GUÐMUNDUR:

Og síðan eigum við allir að sjá einn vopnaðan mann. Jeg skal fá ykkur vopn. —

2. SÍÐHÖTTUR:

Nei, það er ekki gott! vopnaðan? Þó maður fái eitthvað fyrir handarvikið, þá getur það hvorki sett aptur á mann hönd eða fót.

1. SÍÐHÖTTUR:

Jeg hef aldrei vitað þig fá samvizku á undan!

GUÐMUNDUR:

Og svo að flýja undir eins og jeg hef talað við hann nokkur orð, og svo að verja mig og ykkur ef hann eltir. —

2. SÍÐHÖTTUR:

En þá þyrfti maður að fá eitthvað fyrir

skóslitið við hlaupin. — En þurfum við að koma mjög nærri honum?

GUÐMUNDUR:

Nei þú þarft ekki að koma svo nærri honum, að hann nái til þín. Og þá er hið síðasta eptir og það er að þið sverjið þess dýran eið, að segja aldrei neinum eða láta aldrei nokkurn mann á nokkurn hátt fá að vita neitt af því, sem vjer gjörum í nótt.

1. OG 2. SÍÐHÖTTUR:

Það gerum við.

GUÐMUNDUR:

Viljið þið leggja drengskap ykkar og samvizku við?

2. SÍÐHÖTTUR:

Drengskap og samvizku hef jeg aldrei við í loforðum mínum. Góð samvizka og mikill drengskapur eru eins og góð kýr og góður hestur, sem öllum er gott að eiga, en maður lætur þau æfinlega fyrir lakari grip, sje nóg gefið í milli.

1. SÍÐHÖTTUR:

(kinkar kolli).

Okkur er eins áríðandi að þegja og þjer.

GUÐMUNDUR:

Vitið þið hver jeg er?

1. OG 2. SÍÐHÖTTUR:

Nei

GUÐMUNDUR:

þess þarf heldur ekki.

2. SÍÐHÖTTUR:

Jeg fer ekki eitt fet fyrr en mjer er allt goldið, sem lofað var. Jeg vinn ekki af löngun til verksins, en af löngun til launanna.

GUÐMUNDUR:

Það er of mikið! Þegar jeg veit að þú ert misjafn maður, þá getur þú hlaupið frá mjer þegar minnst vonum varir.

2. SÍÐHÖTTUR:

Hvenær fæ jeg þá það sem mjer var lofað?

GUÐMUNDUR:
(brosandi).

Í fyrra málið uppi hjá Surtshelli

2. SÍÐHÖTTUR:

Það er sama sem aldrei; þar eru Hellismenn og þeir gjöra útaf við mig; jeg fer ekki nema jeg fái það áður. Eða ertu Hellismaður?

GUÐMUNDUR:

Það skiptir þig engu, — en með þessu móti dregur þú tækifærið úr höndum mjer. Jeg gef ykkur annan helminginn strax, en hinn skuluð þið fá þegar verkinu er lokið, — en þögn vil jeg.

2. SÍÐHÖTTUR:

Vegið silfur læsir munninum!

(Þeir ganga til bæjarins, **Einar** kemur inn með vopnaða menn).

EINAR:

Koma allir hinir neðanað?

1. BÓNDI:
(sami og í 1. þætti).

Ójá og Þorleifur hrepstjóri fyrir þeim; en veistu ekki hvað nú á að ráðgast um, fyrst við berum vopn í stað malpoka?

EINAR:

Við verðum að hafa lágt um okkur, sökum veiki Þorvarðar bónda.

1. BÓNDI:

En hvar er Gunnar? hann ætti þó að fylla flokk okkar, ef allt væri sem vant er að vera.

EINAR:

Hann kemur. Við skulum ganga út á túnið.

(Þeir fara. **Sigríður** kemur inn).

SIGRÍÐUR:

Hvar skal Guðrún vera? hún er farin eitthvað; jeg vissi reyndar að Eiríkur mundi koma hjer í kvöld og að hún hefur farið út að finna hann, en þau eru þó vön að vera hjer og nú sjást þau hvergi. Jeg ætla að setja mig hjer, því hún hefur máske gengið eitthvað uppfyrir. (Hart heyrist riðið fyrir utan). Hófatak! hver getur þetta verið? — Gunnar!

GUNNAR:

(kemur inn).

Sæl vertu! þú ein hjer úti! Segðu mjer hvar er Guðmundur bróður þinn?

SIGRÍÐUR:

Guðmundur bróðir minn? Spurðu mig ekki að honum jeg veit ekki hvar hann er; hann er ekki heima, þó nú sje komin nótt.

GUNNAR:

Það er sagt að hann hafi kallað saman fund; jeg skil ekki að hann skyldi ekki láta mig vita af því, en jeg ímynda mjer að það hafi verið sendimanninum að kenna; hann hefur víst gleymt að fara til mín.

SIGRÍÐUR:

Varaðu þig!

GUNNAR:

Vari jeg mig? Hvar er bróðir þinn?

SIGRÍÐUR:

Nei, jeg veit ekkert, en farðu varlega Gunnar, gerðu það fyrir mig.

GUNNAR:

Fari jeg varlega? hafa engir komið hingað?

SIGRÍÐUR:

Jeg veit ekki.

GUNNAR:

Jeg veit með vissu að bróðir þinn hefur

stefnt til fundar, og getur verið að það sje til að gera Hellismönnum atför, og jeg er kominn hingað til að hjálpa honum, því að jeg vildi ekki að hann þyrfti þá að standa einn.

SIGRÍÐUR:

Þú trúir öllum svo vel; trúðu mjer nú í þetta skipti. Guðmundur bróðir minn er þjer ekki eins hollur og þú heldur. Honum er ekki sárt um að láta Hellismenn drepa þig og það er af því, að öllum ber saman um, að þú hafir barist betur við Fjögramaka en hann við Eirík í hrauninu.

GUNNAR:

Nei, það getur ekki verið; Guðmundur er ekki svo gerður, því hann er hreinlyndur og trúr vinur, Þú misskilur hann Sigríður mín?

SIGRÍÐUR:

(lágt).

Guð gæfi að það væri hvortveggja. (hátt) Þú mátt trúa mjer hann vill einn hafa heiður af að vinna Hellismenn, hann hefur barist svo mikið fyrir því; gættu þín við honum! — Jeg er systir hans, það veiztu þó?

GUNNAR:

Hann fær sama heiður af að vinna Hellismenn þó jeg sje með. Varaðu þig! einhver hafur sagt þjer þetta til að spilla á milli okkar Guðmundar.

SIGRÍÐUR:

Nei það hefur enginn sagt mjer það. — Jeg veit það; jeg hef komist að því sjálf. Mjer væri ómögulegt að þvo af mjer blóðblettinn ef jeg dyldi þig þess. — Þú treystir þjer, en gættu þín, enginn er svo hraustur, að hann geti ekki fallið fyrir svikum.

GUNNAR:

Jeg get ekki trúað því, því að engann hef jeg vitað þrautfastari en Guðmund. — Þetta er misskilningur.

SIGRÍDUR:

Nei, enginn misskilningur; það verður þjer til falls, ef þú trúir mjer ekki; þú mátt vera viss um að jeg vil þjer vel.

GUNNAR:

Jeg skil hvorki að þetta sje satt, nje hversvegna þú segir mjer það.

SIGRÍÐUR:

Jeg get máske sagt þjer það. Heldur þú að kvennfólkið, þó það sitji heima, kunni ekki að meta hreysti? Jú Gunnar, þó vjer berjumst ekki, þá gerum vjer það sem ekki er minna í varið, vjer gefum út blóð þeirra, sem vjer elskum. Jeg met þig meira en aðra menn sem jeg þekki, þaraf leiðir að jeg vara þig við þessu; trúðu mjer!

GUNNAR:

Jeg get það ekki. Jeg veit vel að þú getur ekki sagt ósatt; en þú getur tekið rangt eptir, skoðað rangt.

SIGRÍÐUR:

Hvað heldur þú að gæti komið mjer til að segja þetta um bróður minn, og heldur þú að jeg mundi segja það ef jeg væri óviss um að það væri satt? Nei, jeg er viss um að bróðir minn er þjer ekki hollur; hann vill ráða þig af dögum; trúðu mjer!

GUNNAR:

Þó englarnir segðu mjer það, gæti jeg ekki trúað því.

SIGRÍÐUR:

Ertu hræddur við kvennaráð? þau geta ekki verið köld. þegar þau koma frá heitu hjarta. Farðu varlega, og gættu þín við svikum! Hlýddu ráði, sem elskandi stúlka gefur þjer!

(flýtir sjer út)

GUNNAR:

(horfir eptir henni)

Sigríður! — Horfin! — hún talaði við mig; hún var svo djarfleg og frjáls, en þó roðnaði hún svo mikið. — — Nú má jeg engann tíma missa og það þó við sjáumst aldrei optar,

(Fer hvatlega út í gagnstæða átt).

(Eiríkur kemur inn öðru megin. Guðmundur frá bænum dularklæddur, svo lítið sjest í andlit honum. Guðrún í karlmannsfötum, torkennileg og báðir Síðhettirnir koma inn).

GUÐMUNDUR:

(hátt)

Taktu til vopna! hjer er Hellismaður, sem vill svíkja ykkur alla!

(Hann styður á öxl Guðrúnar og hrindir henni lítið eitt fram; Eiríkur leggur hana í gegn, hún fellur niður; hinir flýja).

EIRÍKUR:

Hinir flýja, hræddir eru þeir,
og hafa ekki dug til þess að berjast;
þú Hellismaður hefur fengið launin
helvíti gapir æ við svikaranum.
En hver ert þú?

(hann tekur hettuna frá).

Ó guð minn, hvílíkt morð!

GUÐRÚN:

Jeg var svikin, lífið leitar brott,
og lifðu vel þú síðsta hugsun mín.
Jeg fyrirgef þjer. — Fyrirgef þjer hvað?
Nei fyrirgefðu að jeg ljet svíkja mig.
Ó, lúttu að mjer, kysstu kaldar varir.

(Eiríkur sezt undir herðar henni).

— Ó kuldi dauðans grípur hjarta mitt! —
jeg fer á undan eins og ósk mín var,
á eptir muntu bráðum koma vinur.
Jeg finn að blóðið færist óðum saman

og flýtur allt til hjartans, til að berjast
við dauðann. — Flýðu, stefndu hjeðan strax!
— mjer sortnar fyrir augum — lífið flýr. —
Jeg dey — jeg dey — ó farðu vinur vel!

(Andvarpar og deyr)

EIRÍKUR:

(faðmar hana og stendur upp)

Jeg verð að engu! sál mín engist saman
af dauða-angist. Drottins hefndarhönd
hún hefur glatað mjer í reiði sinni.
Jeg vil deyja — en þó ekki hjer,
því jeg vil ekki saurga líkama hennar,
með því að deyja hjer við hennar hlið.
Hversu skal jeg getu borið þetta?
Nú er enginn annar dauði til.

(kastar sverði sínu og fer)

(Þögn)

(**Gunnar, Einar** og fjöldi vopnaðra manna koma inn).

EINAR:

Mjer var sagt að þú hefðir verið látinn vita af samkomunni svo jeg var feginn að mega spara mjer ómakið að ríða heim til þín.

GUNNAR:

Jeg var viss um, að þið munduð láta mig vita það og jeg sá strax, að eitthvað þessu líkt hefði komið í veg fyrir það; jeg sá mannaförina milli bæjanna, þó dimmt væri orðið og það er þessvegna að jeg er kominn. Hver

liggur þar? (þeir gæta að líkinu). Guðrún myrt! Hver skal níðingurinn vera?

(lítur á þá).

HINIR ALLIR:

Hver skal níðingurinn vera?

GUÐMUNDUR:

(kemur inn)

Heilir bræður! verið þið velkomnir! (sjer Gunnar og segir lágt) Hann er feigur. (hátt) Velkominn Gunnar!

GUNNAR:

Guðrún liggur hjer myrt.

GUÐMUNDUR:

(ryður sjer fram).

Er hún myrt? (grúfist niður að henni) Þessar rósrauðu varir orðnar hvítar, kinnin föl og hjartað hætt að slá. (hrekkur við) Og augun! (byrgir fyrir andlit sjer, allir horfa á hann með meðaumkun og sumir hvíslast á)

GUNNAR:

(leggur höndina á öxl honum).

GUÐMUNDUR:

(lítur upp).

Hún er fóstursystir mín; hefndin liggur á mínum herðum. Hver hefur unnið ódæðið?

(Þögn)

GUNNAR:

Það veit enginn.

GUÐMUNDUR:

Og hún er torkennilega klædd, sakleysið hefur verið tælt í kverkar dauðans.

(byrgir fyrir andlit sjer).

GUNNAR:

(við sjálfan sig)

Þessi maður getur ekki haft illt í hyggju við mig (til Guðm). Vertu hughraustur! í þessu máli verður eitthvað að gera.

GUÐMUNDUR:

(litast um).

Hér liggur blóðugt sverðið hjá henni, en það er svo langt frá henni, að hún getur ekki sjálf hafa veitt sjer bana með því.

Þekkir nokkur nokkur þetta sverð? sá skal hafa vináttu mína alla æfi, sem getur þekkt það. Ó, saklausa blóð! að þú skyldir vera myrt (Hver eptir annan tekur við sverðinu og skoðar það).

GUNNAR:

Jeg hef sjeð það áður, en jeg man ekki hver bar það.

1. BÓNDI:

Jeg hef sjeð það áður.

GUÐMUNDUR:

(tekur við því aptur)

Þetta sverð á Eiríkur Hellismaður; hann hefur borið það við kyrkjuna, og hann hefur

borið það í höggaskiptum við mig sjálfan; jeg hef aldrei sjeð hann með annað sverð.

(fær þeim það, þeir skoða það).

FLESTIR:

Hann á það.

GUÐMUNDUR:

Það er nú fullsannað, að hann hefur myrt hana. (Hann styður vinstri hendinni á brjóst Guðrúnar, krýpur á annað hnjeð, en rjettir hægri hendina upp).

Jeg sver það við hina heilögu Maríu mey og alla heilaga að hefna stúlku þessarar á Hellismönnum, svo framarlega sem nokkrir yðar eru svo miklir drengir að vilja fylgja mjer.

(Stendur upp. Þys meðal flokksins).

GUNNAR:

(gengur fram og leggur hendina á sverðshjöltu sín).

Jeg sver einnig.

(— — Þögn — —)

GUÐMUNDUR:

Jeg bið himininn sem hefur skapað blóðið og jörðina sem hefur drukkið það, að hjálpa mjer til að hefna. — Vill enginn sverja þennan eið nema Gunnar? (Þögn. — Hann bregður sverði) — Jeg legg þann fyrsta, sem hikar að sverja, í gegn.

EINN:

(lágt)

Það mátti ekki minna kosta!

ANNAR:
(lágt)

Hún var unnustan hans!

ÞRIÐJI:
(lágt)

Það mætti hengja mig ef augu þessi ekki vildu gjöra það, sem tungan lofar!

GUÐMUNDUR:
(Gengur að 1. bónda).

Hikar þú að sverja?

1. BÓNDI:
(frá 1. þætti).

Nei, jeg sver að hefna, því fyrr, þess heldur.

GUÐMUNDUR:
(við annan)

Hikar þú að sverja?

SÁ MAÐUR:

Nei, jeg sver að hefna!

ALLIR HINIR:

Við sverjum að hefna þessa verks á Hellismönnum!

NOKKRIR:

Eða deyja að öðrum kosti!

NOKKRIR:
(sín á milli).

Hún var bezta stúlkan í allri sveitinni!

GUÐMUNDUR:

Happ fylgi hraustum og gipta góðum drengjum! Nú vil jeg biðja tvo af yður að bera hana inn í bæjinn. (Hann breiðir yfirhöfn sína yfir hana og tveir menn bera hana út) — Nú skal jeg segja yður fyrirætlun mína. Hellismenn sofa í nótt í Vopnalág, eins og þeirra er siður þegar þeir fara til afrjettarins. Þetta veit jeg með vissu, því jeg var sjálfur á laun í Surtshelli í kvöld og heyrði ráðagerðir þeirra.

NOKKRIR:

Ófyrirleytinn ertu og þjer viljum vjer allir fylgja! (Aðrir æpa).

GUÐMUNDUR:

Í Vopnalág halda þeir aldrei vörðu, eða svo var þegar jeg var hjá þeim, því Valnastakkur álítur að það muni þreyta um of, og að þess sje engin þörf. Þorleifur bóndi kemur með allmikið lið neðan úr Hvítársíðu og verðum vjer að bíða hans á Hellisfitjum, ef hann verður ekki kominn, en komi hann fyrr, þá bíður hann vor. Vjer höfum nóttina fyrir oss, og vegum Hellismenn sofandi eða vakandi, vopnaða eða vopnlausa, treystum fjölda vorum og fimleika og höldum nú áfram til fyrirtækisins.

BÆNDUR:
(syngja)

1. Til vopnleika hyggur nú hugur

því hefndir vill sakleysið fá;
því skorti dreng þann ei dugur,
er dauðaleik girnist að sjá.
Hellismenn Hel skulu gista,
þá hjör skal í Niflheimi vista,
og engum skal vægja víghríðar el
:,: vjer vegum og myrðum og hefnum svo vel :,:

(Þeir ganga í raðir meðan þeir syngja næsta vers, og þegar það endar eru þeir síðustu að fara út).

1. Af vopnum skal blóð þeirra blæða
með blóðlifrum glitast nú ský;
hræ þeirra hrafns verði fæða
og hraungjótum rotni þeir í;
að návinnu flýti sjer fætur
um foldu, því rjettlætið grætur;
og hengjum og myrðum og höggvum í strá
:,: hjólbrjótum, strádrepum ræningja þá :,:

# V. Þáttur.

## 1. Leiksvið.

(Í Vopnalág; grösug lág með birkirunnum. Fyrir ofan barminn sjest hraunbrúnin og þar fyrir ofan klakahvelfingin yfir Eiríksjökli. Tunglsljós er, og litlu eptir að tjaldið er dregið upp, dregur ský fyrir tunglið.

**Hellismenn** sofa allir í Vopnalág; vopnum, einkum spjótum þeirra er stúngið niður í kringum þá; sverð hafa flestir á sjer, en summum er stúngið niður. **Eiríkur** og **Fjögramaki** sofa yztir til hægri; hinn síðari sefur með sverðið bert í höndum sjer.

**Þrír svipir Hólabiskupa** koma inn frá vinstri í fullum biskupsskrúða).

FYRSTI SVIPURINN:

(gengur hægt yfir leiksviðið, veifar bagalnum yfir Hellismönnum og segir hátíðlega og seint).

»Consecro vos proelio!«

(stendur svo við og kinkar kolli að hinum).

ANNAR SVIPURINN:

(Gengur á sama hátt yfir leiksviðið, veifar yfir þá bagalnum og segir seint og hátíðlega).

«Consecro vos vulneribus!«

(þeir kinka báðir kolli að þeim þriðja).

**Þriðji svipurinn** er grimmilegastur hann fer hægast. Hann veifar yfir þeim bagalnum og það mjög nálægt þeim öllum **Svipur móður Eiríks** kemur inn og grúfist yfir **Eirík.**

ÞRIÐJI SVIPURINN:

(segir hátíðlega og mjög seint).

»Consecro vos morti«!

(Skýið dregur frá tunglinu; svipirnir burt).

(**Eiríkur** vaknar og gengur út í hraunið).

GEIRALDUR:

(stendur upp og skoðar sig)

Nei, enginn blettur! blóðið sem mig dreymdi
var blóð, sem hefur ekki rjettan lit,
en vökvalaust það rann um okkur alla
með eldslit. — Nei jeg finn mig dreymir enn.
Jeg sje oss alla sitja kringum eldinn

(**Atli** rís upp með andfælum).

í somu röðum. — Atli, vakir þú?

ATLI:

Jeg svaf; mig dreymdi draum; hvað segir þú?

GEIRALDUR:

Mig dreymdi í einu heilan fyrirburð.
Sko eru fötin ekki vot á mjer?

ATLI:

Nei alveg þurr.

GEIRALDUR:

(Þreifar á sjer).

Mjer þótti að vjer sætum
við langeldana inn í hellinum,
og inn kom maður sem að enginn þekkti.
Sá hjelt á trogi, hann jós blóði á mig
og hina alla, svo vjer urðum votir.
Síðan fór hann. Blóðið brann á mjer
svo blautt og heitt.

ATLI:

Mig dreymdi nær hið sama.

Vjer vorum allir vopnlausir að Hólum
og vorum læstir inni í kirkjunni.
Þrír biskupar báru í fullum skrúða
þann boðskap, að vjer ættum strax að deyja.
Það átti að höggva okkur alla þar,
og einn þó fyrstan; það var Fjögramaki.

VILMUNDUR:
(sprettur upp, hálfsofandi)

Til vopna bræður!

GEIRALDUR:

Vektu engan maður!
Til vopna bræður! hrópar þú í svefni

VILMUNDUR:

Mig dreymdi, að að oss sóttu margir menn
myrkir bæði á skaplyndi og hörund.
En Sturla sagði: „sveipur opt í svefni!“
og svo mun jeg ei heldur trúa draumum.

ATLI:

Nei, draumur enn! — jeg standa vil á verði
og vaka hjer, þjer sofið betur þá.

GEIRALDUR:

Þú halda vörð, nei þess er engin þörf,
og það hefur aldrei verið siður vor
í Vopnalág. Því Valnastakkur sjálfur
hann vill það ekki.

ATLI:

Jeg geng þá um hraunið
lengra burtu.

GEIRALDUR:

Jeg mun verða með þjer.

ATLI:

(eins og við sjálfan sig).

Jeg óttast þessar undarlegu myndir,
sem augun líta þegar maður sefur.

VILMUNDUR:

Jeg geng með. — En það er ógæfan!
(Þeir fara).

(Þögn).

**Guðmundur, Gunnar, Einar** og margir vopnaðir menn koma inn; þeir tala lágt þangað til **Hellismenn** vakna. **Guðmundur** gengur óhaltur).

GUÐMUNDUR:

Jeg vil ekki drepa þá alla sofandi, en takið þið öll vopn þeirra frá þeim og drepið Valnastakk, hann liggur þarna. Það er þessi þrekni maður í valnastakknum. Loksins get jeg hefnt mín!

GUNNAR:

Þykir þjer það drenglyndi, að vega að þeim sofandi? Nei, það skal aldrei vera, jeg mun heldur vekja þá sjálfur. Jeg vil heldur ekki að öll vopnin sjeu tekin frá þeim; mjer þykir enginn sómi að berjast við Fjögramaka vopnlausan.

GUÐMUNDUR:

Gunnar, þegar þú villt vera eðallyndur, þá verður þú heimskur. (til mannanna). Takið öll vopn þeirra, en hægt! hægt! (mennirnir læðast að).

GUNNAR·

Getur þú látið skömm þá spyrjast um þig, Guðmundur, að vega að vopnlausum mönnum?

GUÐMUNDUR:

Engin mannleg lög ná til ræningja, því þeir brjóta öll lög. (til mannanna). Farið þið hægt og þið sem eruð illa útbúnir skuluð hafa hafa vopn Hellismanna. (Þeir taka öll vopnin er standa kring um Hellismenn og ná sverðinu úr hendi Fjögramaka).

GUNNAR:

Jeg þoli þetta ekki; jeg vek Fjögramaka og fæ honum sverð mitt, svo jeg geti barist við hann vopnaðan.

GUÐMUNDUR:

Jeg gæti ekki gjört við því, þó þú værir svo eðallyndur, að þú vildir berjast vopnlaus við hann vopnaðan. Jeg veit ekki hvert æði er á þig komið. (Bendir Einari). Hafið ekki hátt!

GUNNAR:

Því er ver að jeg er ekki eðallyndur; enginn skyldi leita drenglyndra manna nú, en á fyrri tímum var þessi aðferð ekki kölluð að hefna hinna saklausu.

(**Einar** vill höggva **Valnastakk** banahögg, en særir **Fjögramaka,** hann sprettur upp, **Einar** hverfur bak við aðra menn).

FJÖGRAMAKI:

(kallar).

Vakið bræður! nóttin svarta er svikul,

og særður er jeg, að því sem jeg hygg.
(Hellismenn spretta allir upp).

VALNASTAKKUR:

Til vopna bræður! (sjer þau hvergi).
Vopnin eru á braut,
vopnlaus er enginn, meðan enn hann lifir.
Það hlægir mig að horfa á þennan leik,
og hundum þessum ganga vopnlaus móti.
(Hann ræðst á mann af liði Guðm. tekur af honum sverðið og kastar honum til jarðar. Áhlaup. Bardaginn færist út. Bardagi fyrir utan).

FJÖGRAMAKI:
(kemur blóðugur inn).

Jeg er sár og vopnlaus, verra staddur
Að vísu enginn getur orðið þá
er hann á að verja fjör og frelsi,
og falla eða sigra eins og drengur.
Ó, hefði jeg sverð jeg senda skyldi marga
til svartrar Helju og margir skyldu þá
með angist dauðans engjast blóðgir saman
og eins og maðkur titra á grænni jörð.

GUNNAR:
(kemur með tvö sverð).

Jeg hef æðilengi leitað þín
og loksins hef jeg getað fundið þig,
jeg hugsa að reyna hreysti Fjögramaka,
því hann er kappi, sem jeg hata mest.

FJÖGRAMAKI:

Þú hefur fundið það sem helzt þú vildir
og þér er gott að jeg er vopnlaus maður.

GUNNAR:

Vopnlausan að vega er lítil frægð.
Jeg vildi þá ei kallast góður drengur
ef henti mig svo napurt níðingsverk;
og njóta skaltu að jeg er þess verður,
að berjast við þig; hjer er hárbeitt sverð.

FJÖGRAMAKI:
(tekur við því).

Heilaga mær! og það er sverðið mitt!

GUNNAR:

Nú get jeg barist fyrst við Fjögramaka,
því fágað sverð hann ber í sterkri hönd.

FJÖGRAMAKI:
(lítur á hann).

Jeg berst ei við þig, vertu heldur bróðir,
vopnfærir skyldu fjendur mínir vera.

(fer).

GUNNAR:

Hann vill ei berjast, hann skal mega til,
hann eða jeg skal bráðum liggja dauður!

(fer).

VALNASTAKKUR:
(fyrir utan).

Verjist börn mín, verið eigi hræddir,
verstur er dauðinn þeim sem óttast hann.

(stöðugt vopnabrak).

GUÐMUNDUR:
(kemur inn).

Þorvaldur flúinn af því hann vantaði vopn
og Hellismenn margir orðnir sárir. — Jeg sje

hvergi Gunnar (brosandi) kannske Fjögramaki
hafi fundið hann. — Þunghöggur er Valnastakkur!
(gengur fljótt út).

EIRÍKUR:

(kemur inn með alvæpni).

Þeir falla allir, það mun koma fram
þá er jeg einn, — og hvað á jeg að gjöra?
Jeg skal hefna ef jeg orkað fæ,
og eins og Kári drepa fjendur mína;
og þar er hinn versti!

Hann ræðst á **Guðmund**, sem kemur inn; þeir berjast og færast út.)

VALNASTAKKUR:

(kemur inn blóðugur)

Þorvaldur flúinn! Fjögramaki sár
fallinn er Þórir hinir eru sárir.
Þeir sem að komast undan af oss hjer
til Ódáðahrauns þeir munu skjótast leita.
Þar kemur aptur þessi flokkur upp,
þar skulu lifa fornu, Hellismenn.
Það hlægir mig að láta líf mitt hjer,
og liggja dauður milli fjölda af skrokkum.
og hjarta mitt skal hlægja móti þeim
hvassa oddi, er nær í gegnum það.
En mjer er ennþá engan veginn hætt
því ósár stend jeg, jafnvel ekki móður.

(fer)

(**Einar** og **Guðmundur** koma inn)

EINAR:

Þorvaldur dauður!

GUÐMUNDUR:

Fari fleiri svo

hvar fjell hann?

EINAR:

(bendir)

Þarna uppi á hálsi.

GUNNAR:

(kemur inn)

Vel bítast þeir Hellismenn!

GUÐMUNDUR:

Þú hefur fengið Fjögramaka vopnin til að berjast með?

GUNNAR:

Já.

GUÐMUNDUR:

Og nú hefur hann drepið tvo menn af okkur, það mátt þú bera, og annar þeirra var giptur.

GUNNAR:

(þurr)

Þeirri konu skal jeg sjá fyrir.

GUÐMUNDUR:

Jeg get ekki álitið að í þjer renni ærlegt blóð, ef þú lætur Fjögramaka vinna fleiri óhappaverk með sverði, sem þú hefur fengið honum í hendur.

GUNNAR:

(strýkur svitann af enni sjer).

Þú vildir myrðasofandi menn og vopnlausa!

GUÐMUNDUR:

Hellismenn eru glaðvakandi, eða svo sýnist mjer Fjögramaki vera. Flestir þeirra eru vopnaðir, bæði þeir sem sváfu með sverðið í skeiðum, og svo þeir, sem þú hefur sjeð fyrir vopnum. — Ábyrgðin á verkum Fjögramaka liggur á þjer.

GUNNAR:

Líklega þarftu ekki að frýja mjer hugur lengur. (fer)

GUÐMUNDUR:

(við sjálfan sig)

Nú gengur þú síðustu sporin þín, Gunnar! (fer)

EINAR:

(kemur inn)

Jeg er hræddur. — Nei, jeg er ekki hræddur. Jeg er skynsamari en hinir. — Margir segja að það sje ekki einusinni hálfur maður sem ekki þorir að berjast. En að berjast, það er ekki við mitt skap, af því að jeg er helmingi skynsamari en allir, sem gera það. Sumir segja að það sje heiður að berjast; þeir geta haft nokkuð til síns máls, en svo skyldi verða höggvið af manni höfuðið, — já heiðurinn setur það ekki á aptur! En jeg hef haft nóg að gjöra að passa mig í nótt; allstaðar þarf maður að vera nærri. Jeg kann að vera í bardaga, þó jeg berjist ekki; þjóta um allt með

nakið sverð, fara hvergi of nærri og höggva aldrei högg nema í áttina til þeirra, sem snúa að manni bakinu. Það er ekki af hræðslu það er af tómri skynsemi að jeg gjöri það. — Þar kemur einn enn.

(Hleypur út)

EIRÍKUR:
(kemur inn, hann styðst á sverðið).

Nú kemur fram hin dimma draumsjón mín,
þá dagur rennur upp af heiðu austri
mun sólin líta líkin Hellismanna
litverp, blóðug, hulin fínu ryki.
Jeg mun hefna ef mjer endist líf,
og eins og Kári ráfa griðum sviptur
ef jeg kemst ei bráðum hjeðan braut, —
hjer brotna öldur þessa hrausta flokks.

FJÖGRAMAKI:
(kemur máttvana inn).

Elskaði bróðir, eg hef fengið nóg,
aflvana geng jeg, hjarta mitt er snortið,
Því Gunnar náði mjer með sverði sínu
og sárt það beit, en brjóstið er víst viðkvæmt
Jeg veit Gunnar er þó einnig sár — —
en ekki vissi' eg hvort jeg náði til hans.
Jeg kveð þig vinur, hjer í hinnsta sinn,
haltu mjer uppi jeg get naumast staðið.
Í hinnsta sinn í hönd mjer taktu nú,
höndina um sverðið.

(**Eiríkur** tekur í hægri hönd honum).

vinur farðu vel!

Og leiddu mig aptur út í bardagann,
Því eg vil helzt við hlið þjer deyja vinur,
og berjast meðan hjartað hættir ekki,
en hefndu mín!

(**Eiríkur** leiðir hann út).

GUÐMUNDUR:

(styður **Gunnar** inn].

Þú ert sár, þjer hefði verið betra að fá ekki Fjögramaka vopn í hendur til þess að drepa þig.

GUNNAR:

Þú mátt ei lasta þá sem vilja vera
veglyndir, þó þeim takist stundum ekki.

GUÐMUNDUR:

Settu þig niður, stilltu blóðrásina
og hallaðu þjer sem Hjálmar hugumstóri
að hárri þúfu, það er dúnmjúk rekkja.
Jeg má ekki vera augnablik

(Gunnar setur sig).

frá orrustunni, þar er nóg að vinna.

(Fer, stutt þögn).

RÖDD:

(fyrir utan).

Varaðu þig Valnastakkur! fallinn er hann Fjögramaki.

VALNASTAKKUR:

(fyrir utan).

Hans skal hefnt verða!

(mikið vopnabrak).

GUÐMUNDUR:

(kemur aptur til Gunnars).

Þar er Fjögramaki fallinn, jeg felldi hann, og þóttist gjöra það fyrir þig. Okkar menn berjast eins og ljón.

GUNNAR:

Af því þeir eru margir og vel vopnaðir; skömm sje þeim sem ekki þorir að berjast með ofurefli.

GUÐMUNDUR:

Fjögramaki er fallinn, heyrir þú ekki? Eiríkur hjelt honum uppi seinast þegar jeg veitti honum sárið, og bar hann um stund dauðan á handlegg sjer.

GUNNAR:

Jeg kannast við að það sje hraustlega gjört— ef þú hefur ekki gengið að baki honum, það gerði jeg aldrei.

GUÐMUNDUR:

Á maður ekki eins að verja bakið og brjóstið? (fer).

GUNNAR:

Fjögramaki dáinn með sverðið í hendinni; því fjekk jeg það ekki? og hann deyr standandi í höndunum á Eiríki. — Undarlegt!

(Styður höfði í hendur).

ÞIÐRIK:

(kemur inn; styðst á sverðið).

Jeg er þreyttur, dauðablóði drifinn,
að deyja hjer er ekki við mitt geð.
En ei skal gráta, ei má sköpun renna
og enginn getur stöðvað þeirra gang.
Jeg hugði ei á æskuvori mínu,
er allir hlutir brostu hýrt við mjer,
að jeg mundi eiga að deyja hjer,
útlagi, ræmdur fjandi mannkynsins.
Jeg hugði ekki í Hólaskóla fyrr,
þá hávær gleði breiddist yfir flokkinn
að vopnabrakið hafa mundi hærra,
þar hjörvi særast skyldi brjóstið mitt.
Og ungur barðist jeg við bróður minn
til bezta gamans; sverðin voru af trje.
Sárt er að bíða bana fjarri öllum,
sem bert gætu linað síðstu þjáning manns.

RÖDD:

(fyrir utan).

Þar hneig Valnastakkur til jarðar.

ÞIÐRIK:

Þá vil jeg einnig deyja.

**Eiríkur, Vilmundur, Þormóður, Gunnlögur** koma inn, **Þiðrik** snýst í lið með þeim. **Guðmundur** og menn hans sækja þá. Þeir berjast.

EIRÍKUR:

Nú þurfum vjer ekki lengur að verja foringja vorn og vjer skulum hugsa um að kom-

ast undan. Hver sem undan kemst hefni vor grimmilega! — (Ræðst á mannhringinn; vopnaburður mikill; allir Hellismenn komast út. Gunnar vill standa upp og hjálpa bændum en hnígur niður aptur. Vopnabrakið þagnar; bændur safnast saman kring um Guðmund og Gunnar).

GUÐMUNDUR:

Elti nú sex hvern þeirra og drepið þá vægðarlaust!

EINN MAÐUR:

Nú elta miklu fleiri hvern þeirra.

GUÐMUNDUR:

(lítur út).

Satt er það — Eiríkur fer á handahlaupum, jeg hef aldrei sjeð fljótari mann en hann. (Til mannanna). Nú er þetta dagsverk ent, fyrst Þorleifur hefur tekið að sjer að vinna á öllum sem flýðu. Jeg þakka yður; þessa dags munu aldirnar minnast; og vopnabrakið í Vopnalág mun bergmála í eyrum niðja yðar. — Allir þeir eiðar, sem mjer hafa verið svarnir eru nú uppfylltir. (Þeir láta gleði í ljósi, til Gunnars) Þú ert sár bróðir, viltu ekki láta binda sár þín?

GUNNAR:

Ekki þarf um að binda, þau eru ekki svo mikil en komdu mjer heim.

GUÐMUNDUR:

Sjálfsagt vinur. Jeg hef nú, eptir að þú ert lagstur í valinn, unnið með eigin hendi á

Fjögramaka og Þórir og þar að auk sigrað Hellismenn algerlega; en sár þín eru nú hin þyngsta sorg mín.

GUNNAR:

Jeg vil heldur bera sár mín en sigur þinn, en Fjögramaka var engin hreysti að fella.

GUÐMUNDUR:

Þú hefur alltaf verið undarlegur í skapi.

GUNNAR:

Og eins í því að trúa sumum of vel.

GUÐMUNDUR:

Í hverju hef jeg brugðist þjer? Engu. Þú liggur óvígur vegna skoðana þinna.

GUNNAR:

Ef svo er, þá ligg jeg óvígur fyrir háleita hugmynd; — jeg er þreyttur, láttu bera mig á hest.

GUÐMUNDUR:

Lyptið honum upp! Hægt, hægt, hann er í óviti, til hestanna strax!

(Þeir fara).

**2. Leiksvið.**

(Í Kalmanstungu; stofa tvídyruð).

EINAR:

(kemur inn)

Nú er þá að reyna að vinna björninn. Jeg verð að segja henni að Gunnar sje sár til ólífis, því mikið þykir henni til hans koma.

SIGRÍÐUR:

(kemur inn)

Varst það þú sem komst Einar? Hvar er Guðmundur bróðir minn? Hjer stendur svo hryggilega á.

EINAR:

Meðan þú svafst höfum við Guðmundur sigrað alla Hellismenn.

SIGRÍÐUR:

Og þú varst þar nærri? Alla Hellismenn! Þá hafið þið ekki verið tveir einir um það.

EINAR:

Jeg sýndi það í nótt að jeg hef hug í hjarta. — Flestir vopnfærir menn voru með okkur.

SIGRÍÐUR:

Var Gunnar með.

EINAR:

Já hann var með okkur.

SIGRÍÐUR:

Lifir hann?

EINAR:

Hann lifir enn, en jeg veit ekki hvað lengi það verður, hann er sár til ólífis.

SIGRÍÐUR:

Já jeg skil að það varð svo að fara. Gunnar verður að deyja af því hann er hraustari og hugprúðari en Guðmundur bróðir minn.

Þú hefur hjálpað Guðmundi til þess sem annars varmenni! Þú hefur líklega gengið aptan að Gunnari og veitt honum sárið, meðan hann barðist við Hellismenn að framan.

EINAR:

Þú ásakar mig án þess að hafa nokkra ástæðu, svo gjöra jafnan heimskar konur.

SIGRÍÐUR:

Jeg hef nógar ástæður til að ásaka þig, en ekki nema eina sönnun fyrir því, að þú hafir ekki gjört það, og hún er sú að þú hafir ekki þorað það. — Jeg er húsráðandi hjer meðan Guðmundur er í burtu, og jeg skipa þjer að verða sem fyrst burt hjeðan.

EINAR:
(reiður)

Dyrfist þú?

SIGRÍÐUR:

Já jeg dyrfist! Jeg er ekki eins hrædd við þig, og þú varst við Hellismenn! Út! út!

(Einar hugsar sig um og fer)

SIGRÍÐUR:
(hlær kuldahlátri).

Lengi er hann hugprúður!

(Óp fyrir innan »dáinn« — »dáinn« Sigríður flýtir sjer inn).

GUÐMUNDUR:
(kemur inn)

Nú er það allt búið, og nú er þetta langa

og stranga stríð loksins á enda. — Nú fæ jeg hvíld.

(Hengir upp vopn sín Sigríður kemur inn grátin)

Gleðileg tíðindi systir, Hellismenn eru unnir!

SIGRÍÐUR:

Hryggileg tíðindi bróðir, faðir þinn er dáinn!

GUÐMUNDUR:

Svo?

SIGRÍÐUR:

Þú segir „svo“ við því; jeg vissi það fyrr að þú ert ekki eins og maður! svona tekur þú á móti þessari harmafregn. Ef þú hefðir mátt vaka yfir honum eins margar nætur og jeg, fella eins mörg tár yfir honum og jeg, sveitast og þreytast eins mikið yfir honum og jeg, þá hefðir þú sagt eitthvað annað.

GUÐMUNDUR:

Og vertu ekki svo áköf systir mín, hvað átti jeg að segja? Mátti hann ekki verða feginn að fá að deyja, hann svo geðveikur?

SIGRÍÐUR:

Jeg vildi heldur vera svo geðveik sem hann en vera eins vond og þú.

GUÐMUNDUR:

Láttu ekki svo systir mín.

SIGRÍÐUR:

Gerðu síðustu bón mína, Guðmundur, og

hún er að jarða hann föður þinn heiðarlega, jeg mun svo ekki biðja þig optar.

GUÐMUNDUR:

Það skal jeg gjöra systir! Veiztu ekki að jeg vil gjöra alla hluti fyrir þig? Jeg mun láta greftra hann virðulega, gefa fjölda af kertum til klaustranna, svo munkarnir sjái til að biðja fyrir honum, Jeg læt lesa sálumessur og setja legstein á leiði hans og veiti minningu hans allan þann sóma sem jeg get. Og segðu mjer þá, hvers vegna þú villt einkis biðja mig framar?

SIGRÍÐUR:

Þú ert hræðilegur maður, Guðmundur! — Heldurðu að jeg viti ekki að Gunnar fjell óvígur fyrir eggjanir þínar. Helldurða að jeg viti ekki, að þú gefur burt bæði mig sjálfa og hamingju mína, undireins og þú hefur hagnað af því? Jeg vildi óska að jeg ætti göngumann fyrir bróður í stað þinn.

GUÐMUNDUR:

Nú ertu reið systir!

SIGRÍÐUR:

Jeg hef nú sagt þjer hversvegna það er. Guð hjálpi mjer og láti mig ekki gruna þig um fleira, sem jeg e n n vona að þú hafir ekki gjört. Nú máttu vita það bróðir minn, að jeg fer á braut og ætla mjer ekki að koma aptur til Kalmanstungu. Jeg væri farin hjeðan, ef

mjer hefði ekki fundist það vera heilög skylda mín að annast föður minn. — Gunnari er lífsvon, nú skal jeg reyna að annast hann til þess, að bæta verk þitt.

GUÐMUNDUR:

Já, systir mín jeg er viss um að þú gerðir það, ef jeg hefði unnið eitthvert óviljaverk. Jeg skal láta sækja Gunnar særðan og láta hann vera hjer, meðan hann liggur í sárum, svo að við getum hjálpast að með að græða hann.

SIGRÍÐUR:

Þú með eitri og jeg með einfeldni minni, jeg skil þig.

GUÐMUNDUR:

Annað var þegar jeg kom úr Surtshelli; jeg kom bleikur, máttvana og blóðugur um nótt, sárið var rifnað upp á fætinum á mjer og jeg varð að vera á laun svo lengi, sem jeg ekki var gangfær; þá tókst þú öðru vísi á móti mjer, þá varstu ein á við alla þá vini sem jeg annars hefði þurft. En nú skil jeg þig ekki; vertu ekki lengur reið, og vertu kyr hjá mjer, systir!

SIGRÍÐUR:

Í þetta sinn ætla jeg ekki að láta telja mjer hughvarf; jeg hlusta ekki lengur á það sem þú segir, því jeg veit þú talar vel; þjer er flest ósjálfrátt vel gefið. Jeg fer. — Farðu vel!

GUÐMUNDUR:

Jeg vil ekki láta þig fara, þig mun iðra þess lengi.

SIGRÍÐUR:

Þú vilt snúa mjer, en því fer betur, að það er of seint. Nú fer jeg til Gunnars og annast hann þangað til sár hans eru gróin, svo skal klaustrið gæta mín. Farðu vel, jeg mun biðja fyrir sál þinni. (fer).

GUÐMUNDUR:
(horfir á eptir henni).

Jeg sje á gangi hennar að hún er fastráðin. Einar! Einar! komdu hingað snöggvast!

EINAR:
(fyrir utan).

Já jeg kem! (kemur inn). Hvað viltu?

GUÐMUNDUR:

Náðu sem fyrst þú getur í prest, munk, eða einhvern vígðan mann; jeg þarf að semja við hann um legkaup, sálumessur og gjafir til klaustra. Vertu nú fljótur og taktu þann fyrsta sem þú finnur!

EINAR:

Jeg skal vera fljótur að því, en hvað segir þú um það, sem þú hefur lofað mjer í tilliti til Sigríðar systur þinnar?

GUÐMUNDUR:

Hún getur ómögulega átt þig nú, til þess ber hún of mikinn harm eptir föður okkar.

EINAR:

Hvað er þetta?

GUÐMUNDUR:

Allt þessháttar verður að bíða fyrst um sinn. (Einar fer)——Hvaða hræðileg sjón! — Er þetta samvizkan? —. Hvar er nú afl mitt?—Jeg skal ganga með augun aptur og loka dyrunum! — (Hann gengur að dyrunum með aptur augun, en stöðvast). Oh! undarlega vald! Það er eins og jeg ætli að steypa mjer blindandi í foss. — — Jeg hef ekki drepið þig! (Gengur að dyrunum, lokar þeim og þær opnast aptur. Hann þerrar af sjer svitann). Jeg ætla út! nei, jeg þori ekki að ljúka upp hurðinni, jeg er svo hræddur um að sama sjónin blasi við þar. Jeg hef gengið óhræddur móti vopnum hraustustu manna, og get nú ekki látið aptur hurð.

(Einar kemur inn með munk; munkurinn er í munkakápu og hefur hettu fyrir andlitinu).

EINAR:

Hjer er munkurinn sem þú baðst mig um að sækja.

GUÐMUNDUR:

Jeg þakka þjer fyrir Einar.

(Einar fer).

MUNKURINN:

(hátíðlegur).

Pax tecum!

GUÐMUNDUR:

Heill faðir!

MUNKURINN:

Hvað viltu mjer sonur?

GUÐMUNDUR:

Jeg vil skriptast og fá syndafyrirgefningu.

MUNKURINN:

Hvað hefur þú gert?

GUÐMUNDUR:

Æruverði faðir! jeg hef syndgað svo mikið að jeg veit það ekki allt. Jeg vil kaupa fyrirgefningu allra synda minna.

MUNKURINN:

(hátíðlega).

Teldu mjer upp syndir þínar, sonur! skriptamálið er heilagt, og eg hef svarið, að segja ekki eitt einasta orð af því, sem mjer er sagt í skriptastólnum.

GUÐMUNDUR:

Jeg var þrisvar óþekkur við hana móður mína, þegar jeg var barn, og það liggur svo þungt á mjer nú. Jeg hef látið drepa 18 ræningja; margir menn hafa misst lífið fyrir það. Jeg man ekki fleira, en þetta angrar mig svo innilega, að jeg get ekki borið það nú. Jeg bið um fyrirgefningu allra synda minna.

MUNKURINN:

Gættu þín sonur; eptir dauðann lifir þú og

þá áttu fyrir sálu að sjá. Varaðu þig sonur, helvíti er heitt!

GUÐMUNDUR:

Ertu viss um að það sje til?

MUNKURINN:

Já, jeg get ekki verið vissari um nokkurn hlut og vittu það syndari, að það er einungis lítill neisti af óblíðu drottins, sem þú finnur nú til í sálu þinni. Kom þú hjer! Hver liggur þar? Komdu og sýndu mjer þessa dauðu stúlku.

GUÐMUNDUR:

Jeg get það ekki!

MUNKURINN:

Þess er ekki von, þú ert sök í dauða stúlku þessarar. Heldur þú að jeg viti það ekki?

GUÐMUNDUR:

Þú vitir það ekki?

MUNKURINN:

Jeg veit margt sem í myrkrunum er hulið, eða viltu vesæli maður, að jeg segi þjer æfisögu þína, eins og hún er?

GUÐMUNDUR:

Æfisögu mína veit enginn.

MUNKURINN:

Þú sórst Hellismönnum dýra trúnaðareiða til þess að geta svikið þá; þeir eiðar voru vel haldnir! Gunnar, einn af þeim, sem elskaði þig eins og bróður, er nú særður vegna frýjana þinna;